# ÁRBÓK

HINS

# ÍSLENZKA FORNLEIFAFÉLAGS

1901



REYKJAVÍK
PRENTUÐ Í ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJU
1901

# Efnisyfirlit.

# Leiðréttingar.

1. við Árbók Fornleifafélagsins 1899:

Bls. 16, línu 19. og 20. eiga orðin: »Dyr virðast hafa verið á suðurhliðvegg hennar«, að falla burt, og samkvæmt því eiga báðar tóttirnar á uppdrætti Bollatótta að hafa dyrnar á vestur- (eða suðvestur-) endanum.

2. við Árbók Fornleifafél. 1900:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Bls. | 9, | línu | 15. | stendur | austur, | á að vera suður. |
| — | 20, | — | 8, | ——— | Næsta, | — — — Nyrzta. |
| — | 20, | — | 35, | ——— | jarðlag | — — — garðlag. |
| — | 29, | — | 10. | ——— | hver fiöll | — — — hverfi öll. |

# Verndun fornmenja.

Eftir

**Finn Jónsson.**

---

Í íslenzkum blöðum hefir nýlega staðið áskorun frá formanni Fornleifafélagsins og verði Forngripasafnsins, þeim Eiríki Briem og Jóni Jakobssyni, um verndun og meðferð fornmenja. Þetta eru orð töluð í tíma, og væri æskilegt, að menn út um alt land tæki sem mest tillit til þessarar áskorunar. Mér hefir verið ant um allar fornmenjar og verndun þeirra; ég hélt í sumar dálítinn ræðustúf í Fornleifafélaginu, og var skorað á mig að láta prenta hann eða ágrip af honum, og fer hann nú hér á eftir.

Land vort er jafnfátækt að *fornmenjum*, sem það er vellauðugt að *fornsögum*. Og þegar um fornmenjar er að tala, er einkum og sér í lagi um *heiðnar* fornmenjar að ræða, þær er finnast í jörðu hingað og þangað. Eftir kristnun landsins var farið að grafa alt fólk í kirkjugarða á kristinn hátt, og lítið eða ekkert var látið í gröfina eða kistuna með þeim. En áður var oft grafið fé, meira og minna, með þeim dána, og jafnvel hestur hans og annað, sem honum hafði þótt vænt um. Það er þetta, er er gerir hauga og grafir úr heiðni svo dýrmætar, að búast má við, að finna eitthvað, er fræðir um mentunarástand á þeim tímum, sem grafirnar eru frá, eða með öðrum orðum, eitthvað sem skýrir sögu landsins í einhverri grein. Nú var heiðni í landi voru að eins um 100 ára skeið eða rúmlega það; það er því ærið lítill tími, sem hér er um að ræða, en hann er líka því merkari. Hingað til hefir ekki fundist mikið í jörðu, enda hefir verið gjörð lítil gangskör að því að leita og finna, fyr en nú á allra síðustu árum, að lifnað hefir yfir áhuganum. Það, sem fundist hefir og finst hér eftir, er og verður merkast fyrir það, að það getur frætt oss um þetta litla tímabil og sögu þess. En nokkra allsherjar þýðing má ekki búast við að það fái; í hæsta lagi má gera ráð fyrir, að það fáist einstöku viðbætur við útlenda fundi, einkum norska.

Það er hin fylsta ástæða til þess að leggja rækt við fornmenjar vor-

ar og fornmenjarannsóknir, hverju nafni sem nefnast. Þótt vér séum lítil þjóð, er full orsök til þess, að vér fáumst við þess konar rannsóknir eftir því sem fé og kringumstæður leyfa; þær fræða oss um sögu vora og vér eigum að leggja rækt við hana eins og hver önnur þjóð, og engu síður fyrir þá sök að vér erum *söguþjóð* fremur flestum öðrum.

Nokkrar rannsóknir hafa nú verið gjörðar eins og eg sagði, og hafa þær snert *hauga, tóttir* og *sögustaði* — alt þetta þrent má með réttu telja til fornmenja.

Það er enginn vafi á því, að til er fjöldi *hauga* hér á landi; og eru margir nefndir í fornum bókum (sögunum og Landnámu), og stundum svo greinilega, að nærri má ganga að þeim vísum. *Tóttir* af bæjum, seljum, fjárhúsum eru víðs vegar um land — og eru þær auðfundnar, og hafa verið töluvert rannsakaðar. Þær eru líka *sögustaðir*, en til þeirra heyra og ekki síður staðir, er lýst er meira og minna og gerst hafa merkir viðburðir á.

Til þess að hafa full not af öllum þessum fornmenjum, að svo miklu leyti sem þær eru til,[1] þarf fyrst og fremst:

*að* menn hlífi þeim (haugum, tóttum o. s. frv.) og eyðileggi þær ekki af fávizku eða ræktarleysi,

*að* þær séu rannsakaðar með kunnustu og varkárni, og haggað sem minst,

*að* forngripir, er teknir eru upp úr jörðu, sé geymdir vel og trúlega svo að skemmist ekki.

Eftir minni reynslu er tilfinningin hjá fólki hér á landi fyrir fornmenjum heldur rík og lifandi; þar af leiðir líka, að menn vilja ekki láta misþyrma þeim eða eyðileggja þær. Sumir eru jafnvel svo elskir að þeim, að þeim mundi vera það á móti skapi að láta raska þeim nokkuð t. d. með því að grafa í þær; eg gæti nefnt marga, sem hlífa þeim á hvern hátt, og eru með því fyrirmyndir annara. En því er miður að ekki eru allir svo gerðir, og það má nefna ekki svo fá dæmi ófyrirgefanlegs hirðuleysis og eyðileggingar. Einkum er hætt við þess konar hirðuleysi eða hugsunarleysi hjá þeim, sem eru ákafir túnsléttunargarpar. Í túnum eru oft og tíðum örnefni, er bundin eru við einhver sýnileg verksummerki (eg vil sérstaklega benda á þá bæi, sem heita *Hof*); þessi ummerki hverfa, er túnin eru sléttuð, ef ekki er haldið yfir þeim hlífiskildi (eins og t. d. síra Kjartan Helgason í Hvammi hefir gert; hann hefir verndað hringmyndaða

1) Eins og kunnugt er, hefir landið víða rótast til og landslag breyzt; einkum hafa ár brotið landið og sópað burtu fornmenjum. Svo hefir t. d. Þverá eflaust eyðilagt haug Gunnars. Það sem nú er nefnt Gunnarshaugur, er yfir höfuð enginn haugur. Jón Ólafsson segir (A. M. 434, 4to, bls. 91): »Í sömu sýslu á Hlíðarenda niðr á mosunum, við Markarfljót[!] liggr Gunnarshaugr; hann er kringlóttr að öðru, en hvað hann er flatr á móti suðri«, smbr. bók Kålunds I, 245. Eg finn enga ástæðu til að efast um, að haugur Gunnars hafi verið þar.

fornmen í túni sínu); og þegar fornmenin eru horfin, er hætt við, að örnefnið týnist, og þá er alt gleymt. En eg skal ekki tala í almennum orðum, heldur taka nokkur áþreifanleg dæmi. Það mun mörgum kunnugt, að haugur í Digranesi (nú Borgarnesi) er kendur var við Skallagrím, var fyrir ekki alls löngu stór og stæðilegur. Fyrir mörgum árum gróf Andrés Fjeldsted í hann, og hefir hann þá raskast nokkuð. *Nú* er ómögulegt fyrir nokkurn mann, er kemur að grenslast eftir haugnum, að sjá nokkur merki hans; hefði ekki nákunnugur maður sýnt mér í fyrra, hvar hann hafði verið, hefði eg ekki getað fundið staðinn. Það sést að eins nú lítil hringmynduð bryggja (en grjót kvað vera undir) í sandinum; þar er alt nú blásið upp. Þessi sami maður sagði mér, að stórir steinar hefðu verið í haugnum ofanjarðar, en þeir hefðu allir verið teknir, klofnir og höggnir og hafðir í nýja veginn upp nesið. Mér rann til rifja þessi hörmulega misþyrming eins hins merkasta haugs á landinu. Hver hefir átt upptökin að þessum ribbaldaskap? Hvernig stóð á því, að engum skyldi verða að vegi að afstýra honum? Annað dæmi er Hörgsdalssteinninn og meðferð fornmenjarinnar allrar nú fyrir skemstu. Í grandleysi eyðileggur bóndi fornmen, sem ef til vill er ein sér í heimi, í hugsunarleysi. Sem betur fór iðraðist hann verksins, og má vera, að hægt verði að ráða nokkra bót á slysninni. Þess væri óskandi. Þriðja dæmi er meðferðin á Almannagjá. Að vegurinn ofan í gjána var bættur, má ef til vill verja. En hitt verður varla varið, að akvegur var lagður eftir öllum »kúnstarinnar reglum« eftir henni endilangri. Botninn er nú alveg eyðilagður, og forntóttir, sem stóðu í honum, hálfeyddar. Einhver frægasta fornmen landsins, sem hver hefði átt að láta sér heilaga skyldu að halda hlífiskildi yfir, hefir nú mist sín fornu, einkenni og upphaflega útlit. Eins er með »Kastalana» — þessa tvo hraunhóla, er skiftu »Þingvöllunum« í efri og neðri völluna og hafa að öllum líkindum verið »þingmark« að norðanverðu. Þessum hólum mátti ekkert raska; og það hefði ekki þurft af neinum ástæðum að gera það. En, hverjum sem nú kemur á Þingvöll, gefst færi að líta, hvernig þeir eru notaðir og hvernig með þá hefir verið farið. Það hefði mátt fá eldhús við Valhöll á annan veg, en fremja þá ódáð, sem þar hefir verið unnin. Kastalarnir höfðu einmitt þá þýðing fyrir allan staðinn, að þeim mátti ekki að neinu raska. Ég veit ekki, nema það væri hægt að bæta úr og flytja eldhúsið og koma öllu í samt lag aftur. Þar til vildi eg hvetja alla þá, sem hlut að eiga. Yfir höfuð verður að muna eftir því, að Þingvellir og gjáin er vor dýrasta fornmen, sem enginn einn ætti að hafa leyfi eða djörfung til að fara með eftir eigin geðþótta. Sama er að segja um gröft þar. Hvergi ætti að fara varkárar að, og þó hefur jafnvel Sigurður Vigfússon grafið þar á alveg óhæfilegan hátt, og umrótað upphaflegum jarðvegi. Svo hefir sannorður maður sagt mér, enda sér þess líka glögg merki.

Það er nauðsynlegt að vernda allar vorar fornmenjar og vekja ást allra manna til þeirra og virðing fyrir þeim, svo að ekki fari framar svo sem hér hefir verið bent á með nokkrum orðum. Eg vil bæta hér við einni hugleiðing og áskorun.

Væri ekki æskilegt, að leitast við smámsaman að *taka ljósmyndir* af öllum merkustu fornmenjum, haugum, »dómhringum«, tóttum, gröfum o. s. frv. Ennfremur af gömlum bæjarstæðum (eyðibæjum) og öðrum söguslöðum (þar sem merkir viðburðir hafa gerst, landslagsmyndir). Og í þriðja lagi af merkustu bæjum, sem enn eru til og hafa sögulega þýðingu, t. d. Bergþórshvoli, Hlíðarenda, eins og þeir líta nú út og eins og þeir standa. Það er fyrirsjáanlegt, að bæir, að minsta kosti höfuðbæirnir, hverfi alveg áður langt um líður og að reist verði timburhús, en þar með er svo geysimikil breyting gerð, að ilt verður að átta sig á mörgu eftirá, er gamla bæinn, bæjarrústirnar snertir; svo er t. d. nú með Skálholt.[1] Helzt ætti hver bóndi, er rífur bæ sinn og reisir timburhús, að sjá um, að tekin væri ljósmynd af bænum áður, sem nú er víða hægt, og ef ekki væri hægt að ná í ljósmyndasmið, þá að rita upp nákvæma lýsing á bænum utan veggs og innan; helzt ætti hvorttveggja raunar að fara saman og bæði myndir og lýsingar að geymast í Forngripasafninu.

Tilfinningin fyrir gildi fornmenja er hvergi á hærra stigi en í Danmörku. Með viturlegri aðferð hefur stjórn Forngripasafnsins í Khöfn tekist að vekja hana og efla, svo að menn eru nú fúsir á að vernda hauga og hvað sem er af því tægi, gera yfir höfuð alt sitt til, að ekkert farist fyrir handvömm. Einkum er búið að koma því inn hjá mönnum, að enginn eigi að grafa eftir fornmenjum, nema þeir sem vit hafa á og *kunna* **að grafa**, svo að ekkert eyðileggist. Eg hef spurt embættismenn við safnið, hvort ekki væri þörf á lagaboði um verndun fornmenja, en þeir réðu sterklega frá því; lagaboð gætu valdið því gagnstæða, að koma inn þrjózku hjá bændum og þeir kynnu þá að álíta, að á þá væti lagt haft, sem væri ranglátt. Í Svíþjóð væri til lagaboð, og hefir það víst ekki orðið að tilætluðum notum. A hverju ári eru nú friðaðir um 2—300 haugar og fornmenjar í Danmörku. Eigandi jarðarinnar, er hún stendur á, afhendir fornmenina Forngripasafninu til æfinlegrar eignar og skuldbindur sig og alla eigendur eftir sig að vernda hana með skriflegu þinglýstu skjali (slíkt skjal stendur á eftir þessari ritgjörð í þýðingu). Eg er sannfærður um, að líka aðferð má hafa hér á landi, og eg er sannfærður um, að íslenzkir jarðeigendur munu verða eins ljúfir og fúsir á að gefa fornmenjar sínar á sama hátt Forngripasafninu hér í Reykjavík. Þeir gera það fyrir mentun lands-

---

1) Sumstaðar eru enn eftir leifar af afargömlum byggingum, t. d. partur af skála á Keldum; þessi partur ætti að komast á Forngr.safnið, ef bærinn yrði rifinn.

ins, fyrir sögu landsins, fyrir ættjörð sína í einu orði, og sér sjálfum til ævarandi orðstírs.

Hvað nú *rannsóknir* fornmenja sjálfar snertir, eru þær heldur ekki neinstaðar á jafnháu stigi sem í Danmörku. Þær eru þar framdar með hinni mestu nákvæmni, athygli og samvizkusemi. Það er vanalegast stjórn Forngripasafnsins, sem stendur fyrir greftinum. Í raun og veru er ekki grafið þar í hauga nú nema því að eins að það eigi að eyðileggja hauginn, annaðhvort af því að bóndi þurfi að nota moldina eða af því að haugurinn er fyrir, ef leggja á veg eða járnbraut, eða af einhverri annars konar nauðsyn, eða þá ef haugurinn er skemdur til muna fyrir löngu. Þegar svo á að grafa í hauginn, er fyrst haugstæðið mælt og afstaða þess, og tekinn ljósmynd af honum, eins og hann er; svo eru teknar myndir, hve nær sem þörf þykir, ekki sízt þegar komið er niður að sjálfu leginu, beinunum og gripunum, sem þar kunna að finnast. Moldinni er sópað af með mestu varkárni, og mynd tekin af beinunum o. s. frv., eins og þau liggja; til þess þarf myndvél, er getur tekið myndir lárétt (niður á við). Svo er alt mælt nákvæmlega, hvar hvert bein eða gripur liggur og afstaðan mæld og ákveðin með þríhyrningamælivél. Af gripunum er tekið upp það sem nýtilegast þykir og sett í safnið, ef haugurinn á að standa framvegis, og svo er mokað moldinni yfir aftur og haugurinn gerður alveg eins og hann var. Nákvæm lýsing á haugnum og greftinum ásamt ljósmyndunum eru svo geymd á Forngripasafninu.

Annars get eg vísað til hinnar ágætu ritgjörðar D. S. Möllers, forngripasafnsstjóra, í Árbókum Fornfræðafélagsins 1897 (Udsigt over oldtidsudgravninger foretagne for Nationalmuseet i årene 1893—96). Þar af má sjá meðal annars, að ríkisþingið gaf 1893—94 og árin þar á eftir 10,000 kr. til fornfræðisrannsókna

Það er nú líkast til, að vér höfum ekki tæki til og ekki ráð á að gera svo nákvæmar og dýrar rannsóknir, en nokkuð má áleiðis komast. Lýsingar má ætíð semja; gröft má ætíð hafa sem samvizkusamastan og réttastan, ef kunnáttu og lag brestur ekki. Um fram alt ætti að hindra það að menn, sem eru óvanir grefti, færu að vasast í því; útlendingum ætti hver jarðeigandi að harðbanna að eiga nokkuð við gröft í fornmenjar í þeirra landareign, nema þeim, sem eru sjálfir fornfræðingar og ef til vill gerðir út af Fornleifafélaginu sjálfu.

Að endingu set ég hér þýðingar af skjali því, er áður var talað um, og öðru er lýtur að þessu máli, sem hér ræðir um.

Skuldbinding jarðeiganda:

»Eg undirritaður [nafn, staða], sem samkvæmt kaupbréfi, þinglesnu þ. . . . . er eigandi jarðarinnar . . í . . . sókn í . . héraði, í . . . amti, friða með þessu mínu bréfi fyrir Forngripasafn þjóðarinnar (Nationalmuseet) fyr-

ir hönd ríkisins fornmen (-menjar) þá (þær) á jörð minni, er nefndar skulu verða.

Þessa (þessar) fornmen (-jar) skuldbind eg mig og alla síðari eigendur og leigjendur jarðarinnar til að friða og vernda, svo að hún (þær) verði aldrei skemd (-ar) með grefti, plæging, brottflutning eða grjótaðflutning eða nokkru öðru móti. Þó áskil eg mér rétt til þess að beita fé á þeim og rífa lyng. Trè má þar ekki gróðursetja.

Friðunarmerki[1] má reisa þar. Þegar stjórn safnsins vill líta eftir fornmeninni (-menjunum), verður hún að láta eiganda eða leigjanda vita af því fyrirfram.

Fyrir hvern þanna skaða, sem fornmenin (-menjarnar) verður (-a) fyrir af völdum eiganda eða leigjanda og með þeirra vitund og vilja, skal greiða eftir ákvæði stjórnarinnar alt að 5 tunnum byggs, sem verða eign fátækrasjóðs sveitarinnar og þar að auki gera við fornmenina (-menjarnar) svo að hún (þær) verði jafngóð (-ar).

Þessa skuldbinding má þinglýsa á kostnað Forngripasafnsins«. — Svo eru fornmenjarnar taldar upp og nákvæmlega lýst.

Sams konar skjal og þetta mætti og hafa á Íslandi.

*Reglur* um rannsóknir fyrir Forngripasafnið hljóðar svo:

»1. Alt það sem finst í gulli og silfri við rannsóknina fær eigandinn endurgoldið eftir skyldarmati peningssláttuvarðar ríkisins samkvæmt lögum um jarðfundið fé.

2. Fyrir aðra muni, er finnast kunna, verður eigandanum greidd hæfileg þóknun eftir mati Forngripasafnsstjórnarinnar.

3. Fyrir allan beinan skaða, sem jörð verður fyrir af rannsókninni, fær eigandinn þóknun eftir samkomulagi.

4. Ef dældir verða eftir rannsóknina, skal yfir þær jafnað og alt sett í sömu skorður og áður«.

Að síðustu skal þess getið, að til þess að Fornleifafélagið geti með hæfilegum krafti rannsakað fornmenjar og unnið að ætlunarverki sínu, verður þing og þjóð að styrkja það með ríflegra fjárframlagi en hingað til.

1) Þ. e. steinn ferstrendur með stöfunum F. M.

# Rannsóknir

## í Norðurlandi sumarið 1900.

Eftir

**Brynjúlf Jónsson.**

---

Sumarið 1900 fór eg fyrir Fornleifafélagið norður í Þingeyjarsýslu til þess, að fá nákvæma skýrslu um Hörgsdals-fundinn, og svo til annara fornmenjarannsókna. Lá leið mín um hinar vestri sýslur Norðurlandsins, og notaði eg einnig ferðina til rannsókna þar, eftir því sem tækifæri voru til. Skal nú skýra frá þeim í hverri sýslunni fyrir sig:

---

### A. Þingeyjarsýsla.

Hörgsdalsfundurinn.

*Hörgsdalur* heitir bær í Mývatnssveit. Hann stendur í litlu daldragi uppi í heiðinni vestur frá Gautlöndum. Eftir daldraginu rennur lækur sá, er myndar upptök Reykjadalsár. Nafn bæjarins bendir til þess, að hann hafi verið bygður í heiðni. Eru og þar í túninu miklar og fornlegar tóttarústir. Og svo sem stekkjarvegi fyrir austan túnið er forn girðing, á að gizka dagslátta að stærð, og í henni dálítil bæjarrúst, forn. Þar heitir Þrælagerði, og bendir það einnig til heiðni. Samt er þessa bæjar, Hörgsdals, hvergi getið í gömlum ritum, og hlýtur hann að hafa lagst snemma í eyði. Getur þess í Auðunnar máldagabók, sem talin er rituð 1318, að þá átti Helgastaðakirkja selför í Hörgsdal. Var sú selför notuð fram yfir síðustu aldamót (1800). En nálægt 1820 var þar aftur gjörður bær og hefir bygð haldist þar síðan. Nú býr þar Arni bóndi Flóventsson, dugandi maður og drengur góður. Vorið 1890 (eða 1891?) bygði hann heyhlöðu þar á túninu, skamt norður frá bænum. Þar var áður tótta-upphækkun, sem höfð var fyrir heystæði. Gróf Árni fyrst gröf nær 8 álna langa og 6 ál. víða; og þá er hann hafði grafið 2½ al. djúpt niður, varð fyrir honum grjótbálkur um þvera gröfina nær miðju hennar. Gróf Arni

ekki útfyrir enda hans. Bálkurinn var hlaðinn af hnöllungsgrjóti, heldur smáu, — annað grjót er þar ekki. — Var hann nál. 1 al. á breidd, tæplega 1 al á hæð um miðjuna, en lækkaði til endanna, svo að hann var þar ekki yfir $^1/_2$ al. á hæð. Viðarkola-agnir voru víða milli steina í honum. Á gólfinu til beggja hliða frá bálkinum, svo vítt sem gröfin náði, var gólfskán, um 2 þuml. þykk; hún var mjög blandin viðarösku. Einnig voru viðarkola-agnir til og frá um gólfið. Viðarkola- eða öskuhrúga varð þó hvergi fyrir. Á miðjum bálkinum, þar sem hann var hæstur, stóðu 4 steinar í ferhyrning; þeir voru jafnháir allir, hér um bil 8 þml. á hæð. Hellusteinn mikill lá ofaná þeim; mynduðu þeir eins og hlóð undir honum. Hann var vel 8 þml. þykkur, $1^1/_2$ al. langur og 1 al. breiður. Ofaní efra yfirborð hans, um miðju þess, beint yfir hlóðunum, var klöppuð hola eða skál, sporöskjumynduð, nál. 15 þml. löng, 10 þml. breið og á að gizka 3 þml. djúp. Eldslitur var á henni innan, og á öllu efra yfirborði steinsins; náði sáð sá eldslitur meir en $^1/_2$ þml. niður í steininn. Þar á móti sáust engin elds-merki á neðra yfirborðinu og ekki heldur á hlóðunum. Þar var aðeins lítið eitt af viðarkolaögnum eins og annarstaðar. Í hlóðunum lá dálítill hnöllungssteinn, á stærð við lítinn hleðslustein; hann er ívið-flatur, og er bolli klappaður ofaní efra yfirborð hans. Bollinn nær 4 þuml. í þvermál, en varla 1 þuml. á dýpt. Á 3 stöðum höfðu flísir verið brotnar úr hliðum steinsins, og þar á milli eru víða klöppuför, svo sést og, að ójafna nokkur hefir verið klöppuð burt á einum stað utan við bollann. Lítur út fyrir, að byrjað hafi verið á að laga steininn utan, en verið hætt við það aftur. Ekki sér eldslit á honum. Hjá honum lágu í hlóðunum fáeinir kljásteinar og tvö tinnubrot lítil. — Árni var einn að verkinu, og gat hann ekki ráðið við stóra steininn heilan. Og án þess að hugsa sig um tók hann járnsleggju og braut hann sundur. Smámolaðist miðja steinsins, þar sem holan var í hann; en utanmeð, þar sem hann var þykkari, urðu stykkin stærri. Fekk Árni þar úr 5 eða 6 hleðslusteina; hlóð hann þeim í hlöðuveggina. Smámolarnir fóru í moldina, og munu þeir flestir eða allir hafa lent innaní veggjunum, er moldinni var mokað upp í þá. Eftir á kom Árna í hug, að steinninn kynni að hafa þótt merkilegur sem forngripur, iðraðist hann þá eftir að hafa eyðilagt hann. Eg fór þess á leit við Árna, hvort hann vildi ekki taka að sér að ná brotum steinsins úr hlöðuveggjunum, þá er hún væri tóm, — nú var hún full af heyi, — safna þeim saman og láta Forngripasafnið í Reykjavík fá þau; mundi þá mega líma steininn saman með steinlími. Árni færðist undan því: sagðist ekki einu sinni vera viss um, að hann gæti náð öllum stærri brotunum, án þess að ónýta hlöðuna; en smærri brotunum yrði ekki náð nema með því, að rífa hlöðuna alla í grunn; mundi það verða sér erfiðara en svo, að Fornleifafélagið gæti fullborgað það; auk þess mætti ganga að því vísu, að eigi tækist að finna nema sum

af smábrotunum. Raunar þvertók hann ekki fyrir þetta með öllu, en óskaði alvarlega, að því yrði ekki haldið að sér. Ekki treysti hann sér heldur til að ætla á hvað það mundi kosta. — Hann geymir hinn litla bollastein, og vill, ef óskað er, gefa safninu hann og flytja hann ókeypis til Húsavíkur, ef honum verði veitt þar móttaka safnsins vegna, og fái Arni fyrirfram að vita, til hvers hann á að snúa sér í því efni; því hann vildi eigi annast steininn lengur en til Húsavíkur. — Kljásteinarnir voru týndir, en tinnumolana afhenti hann mér handa safninu.

Það er að ráða af framanritaðri lýsingu, að hér sé fundinn, — og því miður eyðilagður, — heiðinn blótstaður, sem, eftir bæjarnafninu að dæma, hefir verið *hörgur*. Menn vita nú ógjörla, hvað hörgur eiginlega var. Svo mikið er víst, að hann var blótstaður, á sinn hátt eins og *hof*. En jafnan er þó talað um »hof og hörga« eins og sitt hvort; en hvergi er tekið fram, hvaða mismunur var á þeim. Það væri mikilsvert, ef þessi fundur gæfi einhverja upplýsingu um það mál, enda þótt hún væri lítil. Er því vert að athuga, hvað af honum kann að mega ráða.

Þess er þá *fyrst* að gæta, að hinn mikli hellusteinn var *eldlitaður á efra yfirborði;* hann hafði orðið *brennheitur* og það svo, að hinn blái eldslitur náði nær þumlungs þykt niður í steininn. Þetta sýnir, að steinninn hefir verið eldstæði. Heimilis-eldstæði voru nú vanalega á gólfinu í fornöld; en undir þessu eldstæði var fyrst grjótbálkur og þar ofaná 4 stuðlar, svo að hér hefir eldurinn verið alt að því 1 1/2 al. frá gólfi. Þetta er auðsjáanlega gjört til viðhafnar, og bendir á, að hér hafi brunnið *helgur eldur*. Virðist því, að hellusteinninn hafi samsvarað hinum járnklædda stalla í hofum, og eldurinn haft sams konar þýðingu á hvortveggja staðnum. Er því að sjá, sem það hafi verið *sameiginlegt fyrir hof og hörga, að* þar brynni eldur á stalla. Til hvers holan í steininum var ætluð, liggur eigi ljóst fyrir. Hún hefir verið eins og miðstöð eldsins, og gæti hugsast, að hann hafi verið *falinn* í henni. Að vísu mátti hinn vígði eldur aldrei *slokna,* aldrei *deyja út*; en hann dó ekki út þó hann væri falinn. Hefir það því að líkindum verið álitið leyfilegt, og enda nauðsynlegt, svo ekki þyrfti að vaka yfir honum nótt og dag, ár út og inn, eins og gjört mun hafa verið á hátíðum. Ekki er samt hægt að fullyrða neitt um þetta að svo stöddu. Ósagt skal og það, hvort tinnumolarnir hafa verið brot úr þeirri tinnu, sem eldurinn var kveiktur við í fyrstu, er hann var vígður. Á þeim tímum var eldur kveiktur með stáli og tinnu. Má hugsa sér, að sá, sem kveikti hinn helga eld og vígði hann, hafði síðan brotið tinnuna í mola, til merkis um, að hér ætti ekki framar að þurfa á henni að halda; þessi eldur ætti aldrei að deyja út.

Hið *annað*, sem til greina kemur, er hinn litli *bollasteinn*, sem í hlóðunum stóð; hann minnir á *hlautbollann*, sem standa átti á stallanum í hofum. Raunar er bollinn í þessum steini heldur lítill til þess; en helzt lítur út fyrir, að hann hafi ekki orðið fullgjör. Líklega hefir hann átt að

verða hlautbolli; og hefir hlautbollinn þá einnig verið *sameiginlegur fyrir hof og hörga*. Að hann var í hlóðunum, en stóð ekki á stallanum, getur verið svo að skilja, að bollinn hafi ekki að sjálfsögðu staðið þar, nema þegar hann var notaður við hátíðleg tækifæri; en það *getur* líka verið tilviljun: bollasteinninn hafi verið lagður í hlóðin eftir að hörgurinn var yfirgefinn. Og svo hygg eg að staðið hafi á kljásteinunum, sem í hlóðunum voru: að það hafi verið venjulegir vefjar-kljásteinar, og að þeir hafi legið eftir, þá er bærinn var aflagður og fólk flutt þaðan, en verið svo teknir upp síðar og lagðir á hlóðin hjá bollasteininum, bara af nokkurs konar hirðusemi. Eg ímynda mér nfl., að hörgurinn, eða húsið, sem stallinn hefir staðið í, hafi verið tekið ofan og þekjan látinn falla á gólfið, en hlóðin og hellusteinninn hafi þó staðið upp úr rofinu fyrst, en jarðvegurinn, sem af því myndaðist, hafi þyknað með tímanum upp yfir stallann.

Hið *þriðja*, sem athygli vekur, er *gólfskánin;* hún lýsir því, að þó hér væri helgistaður, hefir samt verið hér eigi lítill *manna umgangur*. Í goðastúkur hofanna komu eigi aðrir en goðinn sjálfur og þeir, er hann leyfði það sérstaklega. Þetta virðist því benda á *mismun*. Þó er eigi umtalsmál að menn hafi mátt ganga í hörginn án umsjónar og skilyrða. Má nærri geta, að þeir einir hafi mátt þangað koma, sem taka vildu þátt í hinni helgu athöfn, sem fram hefir farið á þeim helgisamkomum, sem hér hafa átt sér stað. Auðvitað er ekki hægt að segja, hvernig þeirri athöfn hefir verið háttað; en gera má ráð fyrir, að menn hafi leikið leiki og galið galdra (þ. e. sungið söngva), til að tigna þann guðdóm, sem eldurinn var helgaður. Þetta hefir farið fram báðum megin stallans, — því gólfskánin var jöfn á báða vegu frá honum, — má vera það bendi á, að samkomurnar hafi verið fjölsóttar, — þó þessi staður sé nokkuð afskektur, — en líka má vera, að það bendi á tilbreytni í athöfninni, er því hafi valdið, að samkoman hafi orðið að skifta sér í tvo flokka, og sinn hluti athafnarinnar farið fram hvorum megin við stallann og eldinn.

Þá er hið *fjórða: gólfskánin náði alveg að stallanum* (grjótbálkinum) *báðum megin,* og var *jafnþykk nær honum sem fjær*. Svo hefði ekki verið, ef goðunum hefði verið ætlað sæti við eldinn. Í hofum stóð eldstallinn frammi fyrir *goðastalla*, þ. e. stalla, sem goðamyndir voru settar á. Hér hefir það ekki verið svo; því að jafnvel þótt goðastallinn hefði verið af tré og þessvegna horfinn, þá er svo sem auðvitað, að hann hefði orðið að standa öðru hvorum megin við eldstallann, og á þeim stað hefði þá gólfið verið ótroðið. Það liggur því næst, að ætla, að hér hafi engar goðamyndir verið; er og líklegt, að þær hafi *ekki* verið *þar*, sem mikill *manna-umgangur* var leyfður. Og sé þetta rétt, þá er þar aftur *mismunur á hofi og hörg*. Að vísu má geta þess til, að goðamyndirnar hafi setið á stólum lengra út á bálkinum. En þá er ólíklegt, að hann hefði verið látinn lækka til endanna. Þó er þess að gæta, að ekki var grafið út fyrir enda

bálksins; er því óvíst, hve langur hann var, og hann *gat* hækkað aftur til endanna, þó það kæmi eigi í ljós. *Það var hvergi grafið útað undirstöðum hörgsins.* Væri þeirra leitað, er ekki óhugsandi, að nýjar upplýsingar fengist. En það er ekki hægt nema með því, að taka hlöðuna fyrst burt, og víkka svo gröfina út. Væri það gjört, mundi um leið mega finna steinbrotin, flest eða öll. En hætt er við að það yrði of mikill kostnaður fyrir Fornleifafélagið, þar sem auk sjálfs verksins yrði að skila aftur hlöðunni og túninu í kring »í góðu standi eða með fullu álagi», þ. e. a. s. ábúanda að skaðlausu.

Mér virðist því fundurinn, eins og hann kom í ljós, benda á þessi fjögur atriði: *að* í *hörgum* hafi verið *eldstalli* að sínu leyti *eins og í hofum*; *að í hörgum, eins og í hofum,* hafi *hlautbollar* verið viðhafðir; en *að* í *hörgum* hafi menn haldið guðsdýrkunarsamkomur sínar beinlínis hjá eldstallanum; og *að* þar hafi engar goðamyndir verið, heldur hafi menn tignað þann guðdóm, sem þeir trúðu á, án þess að hafa mannlíkan fyrir sér til að tákna hann.

Vitaskuld er það, að hér getur ekki verið um gildar sannanir að ræða. Þessi niðurstaða mín getur ef til vill breyzt við nánari uppgötvanir. Væri óskandi, að þær uppgötvanir kæmi fram.

---

## Hraunsás hjá Mývatni.

Svo segir í Reykdælu, kap. 5 . . . »ok kom hann (Vemundr) í Hraunsás hjá Mývatni; þar bjó kona sú er Þorgerðr hét; hún átti þann son er Þorkell hét; hann var ungr maðr og fræknligr. . . . fer hann með Vémundi«. Og svo segir í 6 kap; »Hrói sendi þegar aftr spjótit til Þorkels í gegnum hann; en hann var sonr Þorgerðar í Hraunsási». Þetta býli, *Hraunsás*, er hvergi nefnt, nema á þessum stöðum; eigi kemur það fyrir í máldögum í Fornbréfasafninu, og eigi er þess getið sem eyðibýlis í jarðabókum. Eigi er heldur örnefnið »Hraunsás» til við Mývatn. En Sigurður járnsmiður að Arnarvatni, fróður maður og athugull, benti mér á, að norðan á ási þeim, sem Mýnessás heitir, væri girðing mikil forn; væri vert að leita þar eftir bæjarrúst, því ef hún væri þar, mætti telja líklegt, að þar hefði Hraunsás verið. Mýnessás er austur frá Arnarvatni, en útnorður frá Skútustöðum, og eru það langar bæjarleiðar. Ásinn er allstór, ávalur og vaxinn lyngmóagróðri. Hraun liggur að honum á alla vegu nema suðvestan; þar eru holt, sem hann er áfastur við. Að norðanverðu rennur Laxá svo að segja fast við hann. Þar er hún í mörgum kvíslum og eru hraunspildur milli þeirra. Þar heitir á einum stað Mýnes og er ásinn nú kendur við það. Girðingin liggur yfir norðanverðan ásinn, og ganga báðir endar hennar ofan að Laxá. Er hún víðlendari en svo, að svara megi túni á smábýli. Hygg eg heldur, að hér hafi búið leysingi og átt það

eitt land, sem innan garðs var. Bæjarrústina fundum við síra Árni á Skútastöðum á norðurtá ássins skamt frá Laxá. Aðaltóttin liggur frá austri til vesturs, nálægt 7 fðm. löng og 3 fðm. breið; dyr eru á austurendanum. Neðan við hana vestan til er ferhyrnd upphækkun, líklega heystæði, nál. 5 fðm. langt og tæplega 4 fðm. breitt.. Framan við það er tótt, sem liggur þvert niður frá austurenda aðal-tóttarinnar, og hefir dyr á neðri enda, mót norðri. Hún er nær 4 fðm. löng og 2 fðm. breið. Nokkru neðar, nær ánni, er sérstök tótt, sem virðist hafa verið grafin í jörðu að nokkru leyti, en er þó eigi svo glögg, að hægt sé að mæla stærð hennar. Það er auðséð á tóttum þessum, að hér hefir verið smábýli, og að bygðin hefir ekki haldist hér lengi; — því vanalega eru tóttir fornbæja þeim mun fyrirferðarmeiri og margbrotnari, sem bygðin hefir haldist lengur frameftir öldum. Hygg eg víst, að hér hafi Hraunsás verið; hér á það nafn vel við, og hvergi annarsstaðar verður bent á líkur til að hann hafi verið. Þorgerður, sem þar bjó, mun hafa verið fátæk ekkja, og má telja víst, að hún hafi orðið að hætta búskap þá er hún misti son sinn. Mun býlið þá þegar hafa lagst í eyði, en svo fallið í gleymsku er frá leið.

---

## Kumlabrekkur.

Norðaustur frá Geirastöðum í hrauninu, spottakorn frá bænum, er stór hraunhóll og grasbrekka vestan í honum, eða þó heldur tvær brekkur, önnur ofar, hin niðar og hjalli á milli. Inn með neðri brekkunni liggja smá daladrög, og inst er lítill, sérstakur dalur, kringlóttur og svo að segja holumyndaður. Hin dala drögin eru ekki svo afmörkuð. Brekkurnar heita *Kumlabrekkur*. Eiga þær að vera kendar við kuml þeirra austmannanna, sem Reykdæla getur um, að voru með Þorbergi höggvinkinna og fylgdu honum þá er hann barðist við Geirastaðafeðga. Ekki er þó sýnt nema eitt kumlið. Það er stór, aflöng þúfa í hinum insta, kringlótta dal, sem fyr getur. Það er auðséð á þúfunni, að grafið hefir verið í hana. Á hún að vera dys Skefils. Í daladrögunum eru og á tveim stöðum svipaðar þúfur, sem sýnast að vera útgrafnar. Þó eru engar sagnir um þær nú á dögum.

---

## Hoftótt á Hofstöðum.

Bærinn *Hofstaðir* í Mývatnssveit stendur norðanmegin Laxár næsti bær með henni frá Geirastöðum. Bærinn og túnið er suðvestanundir hæðarbrún eigi allhárri. Norðaustur frá bænum er rúst mikil í túninu, sem kölluð er hoftótt. Sýnir og nafn bæjarins, að þar hefir hof verið. Sá hluti rústarinnar, sem eiginlega ber nafnið *hoftótt*, skiftist í tvær tóttir. Liggur mikill langveggur frá norðri til suðurs, eða því sem næst, og vestur af suðurenda hans gengur ferhyrnd tótt, nál. 5 fðm. löng og 4 fðm.

breið. Eigi sér fyrir dyrum á henni, nema ef vera skyldi í suðvestur horninu. Norður frá henni með langveggnum gengur tótt, sem er 10—11 fðm. löng. Norðurgafl hennar, þvers frá langveggnum, er vel glöggur, en vesturhliðveggurinn er mjög óglöggur. Gæti eg trúað, að þar hafi verið þil. En langveggurinn nær lengra en þetta til norðurs, hann er alls fullir 20 fðm. að lengd. En jafnframt tók eg eftir því, að bakvið hann gengur annar langveggur, jafnlangur honum. Mynda þeir báðir 4 fðm. breiða tótt með dyr mót suðri. Lengd hennar er ekki hægt að ákveða með vissu; norðurgaflinn sést ekki, því nú stendur hesthús þar, sem hann hefir verið; hylur það norðurenda tóttarinnar. Þó er hún eigi minna en 20 fðm. löng, og er ekki að sjá, að miðgafl hafi verið í henni. Túninu hallar lítið eitt til suðvesturs þar, sem tóttin er; en fáum föðmum ofar er brekka langs með túninu, og liggur forn túngarður undir brekkunni endilangri. (Nú nær túnið upp fyrir hann). Framundan dyrum hinnar löngu tóttar, svo sem 5—6 fðm. suður frá henni, vesturhalt, er hringmynduð tótt, eigi stærri, en 4 fðm. að þvermáli. Veggirnir eru viðlíka digrir og hofsveggirnir. Dyr sjást ekki með vissu. Nokkru ofar er annar hringur, miklu stærri og gengur hann hátt upp í brekkuna. Hinn forni túngarður liggur að honum frá báðum hliðum, en hringurinn er í túngarðs stað, það sem hann nær. Liggur neðsti bugur hans nokkuð inn í túnið. Nú er hann mestallur tún. Eigi hafði heimafólk heyrt, að hringum þessum væri nöfn gefin; en sú sögn fylgdi þeim, að þeir tilheyrði hofinu. Eg get ekki neitað því, að mér þótti þessi hoftótt næsta einkennileg og hefði gjarna viljað grafa hana út. En því varð nú að sleppa. Þótt leyfi hefði fengist til að grafa svo mikinn gröft í túninu, þá var enga verkamenn hægt að fá. Enda hefði það orðið mér ofvaxinn kostnaður, að grafa hana svo fullkomlega út sem þurft hefði. — Til hofsins á Hofstöðum hygg eg að legið hafi goðorð þeirra Askels goða og Ljóts hofgoða, sem getur í Reykdælu. (V. mynd hér á eftir er uppdráttur hoftóttarinnar).

---

R e y k d æ l a l e i ð.

Svo segir í Ljósvetningasögu 2. kap: »Sé eg ráð til, segir Þorgeir, at við komum honum á þrjár leiðir: á Eyfirðingaleið, á Reykdælaleið ok Ljósvetningaleið». Eigi er Reykdælaleið nefnd í sögum nema á þessnm eina stað, og er hann mikilsverður í sambandi við munnmæli þau, að Reykdælir hafi haldið leiðarþing á Leiðarhóli. Sá hóll er í Helgastaðalandi í Reykjadal, uppundir fjallinu vestur frá bænum; er hann áfastur hólaþyrpingu mikilli, sem þar gengur þvert yfir hálfan dalinn. Þó er Leiðarhóll næstum frálaus og gengur einna lengst til suðurs með fjallinu. Á hólnum sjást þingstaðar verksummerki. Búðatóttir sjást 8 upp á hólnum; eru þær flestar meira eða minna óglöggvar, því hóllinn er mjög veðurbarinn, — þó hann sé ekki beinlínis uppblásinn, —

er jarðvegur á honum mjög grunnur einkum utan og norðantil; hafa búða veggirnir því þornað upp og vindurinn máð þá svo á löngum tíma, að lítið eitt er eftir. Þó eru tvær tóttirnar nokkurn veginn glöggvar; þær eru á miðjum hólnum, liggja til norðurs og suðurs og eru samfastar á endum, en dyr virðast á vesturhlið. Fyrir sunnan hólinn er láglendisspilda; þar eru 3 búðatóttir, allar glöggvar. Eru tvær þeirra samhliða, þó ekki samfastar, og er hvor þeirra nál. 8 fðm. löng. Hin þriðja er vestar og er 10 fðm löng. Allar snúa þær frá austri til vesturs, eru rúml. 3 fðm. breiðar og hafa dyr á austurendanum. Auk þessara búða er ástæða til að ætla að 2 eða 3 séu horfnar. Er sagt, að einhvern tíma hafi kot verið bygt á hólnum, og mun það satt vera, þó hvergi sé þess getið, og þó bæjarrúst sjáist ekki svo greint verði. Þar er þó túngarður kringum hólinn, fornlegur mjög. Liggur hann utaní hólnum alstaðar, nema að sunnan, þar er fagur hvammur sunnaní hólinn, og liggur garðurinn þar niður á láglendinu fyrir neðan hvamminn. Túngarður þessi er vottur um, að hér hefir býli verið. Sumir ætla raunar, að hann sé ekki túngarður, heldur hafi þingstaðurinn verið umgirtur. En bæði er slíkt mót venju, og svo sýnir það sig, að sumar búðatóttirnar eru fyrir utan girðinguna; það eru hinar þrjár tóttir niðri á láglendisspildunni. Túnræktarmerki ber gróðurinn á sunnanverðum hólnum og norður fyrir miðju. Því eru hinar tvær búðatóttir á miðjum hólnum glöggvari en aðrar. Sagt er að kotið hafi staðið fremst (syðst) á hólnum, upp frá hvamminum. En ofaná rúst þess hefir síðan verið sett beitarhús. Það er nú líka aflagt, en tótt þess er glögg. Við norðurenda hennar og austurhlið eru upphækkanir, sem virðast vera eldri en hún. Geta það verið leifar af bænum. En nokkur hluti þeirra hefir þó ef til vill verið notaður fyrir heystæði. Áður en bærinn var gjör má gera ráð fyrir að þar hafi verið 1 eða 2 búðir. Fyrirferð beitarhússtóttarinnar og upphækkananna til samans samsvarar því. Austantil við þá rúst virðist votta fyrir litlum hring. Stekkjartótt er á hólbrekkubrúninni, skamt vestur frá beitarhússtóttinni; lítur eigi ólíkt því út, að sú stekkjartótt sé sett ofaná búðartótt. Í hvamminum, niður við túngarðinn er önnur stekkjartótt, er virðist vera eldri en hin. Þar er eigi að sjá að búðartótt hafi verið undir. Þriðja stekkjartóttin er fyrir vestan suðvesturhorn hólsins, og er hún nýleg. Bæði stekkirnir og beitarhúsið er frá Helgastöðum. (I. mynd er uppdráttur Leiðarhóls).

---

## Ljósvetningaleið.

Um Ljósvetningaleið er getið í Ljósvetningasögu, k. 2. Reykdælu, k. 26. og í Njálu k. 19.; en hvergi er sagt hvar hún var haldin og ekki hefir gengið nein munnmælasögn um það: Það mun hafa verið fróðleiksmaðurinn Jónatan Þorláksson á Þórðarstöðum í Fnjóskadal, sem fyrstur

vakti athygli á því, að eyðibýlið *Leiðarnes* mundi eigi hafa nafn sitt af því, að það lægi svo nærri *leið vegfarenda*, heldur af því, að þar mundi hafa verið haldið leiðarþing. Þótti honum auðsætt, að hinn mikli tóttafjöldi, sem þar er, gæti ekki stafað frá býlinu, heldur hlyti það að vera þingbúðatóttir. A þetta benti hann ýmsum fræðimönnum, er hann átti tal við, og fjellust menn á það. — Leiðarnes er í Hálslandi vestur við Fnjóská; gjörir hún þar bug allmikinn til vesturs og myndast nesið við það. Er þar undirlendi hallalítið, en brekkur fyrir ofan. Dálítil brún (eða gamall árbakki?) gengur yfir þvert nesið ofantil, og eru á honum 11 búðatóttir í röð. Víðast eru bil milli þeirra; þó eru í 2 stöðum 2 og 2 samfastar á endum. Við tvær aðrar sjást líka afhústóttir. Allar snúa þær frá norðri til suðurs, langs eftir barðinu, eru þær frá 5 til 10 fðm. langar og nál. 4 fðm. breiðar. Aðeins ein er jöfn á lengd og breidd um: 4 fðm. Svo sagði Jónatan mér, að áin hefði í sínu minni brotið norðanaf nesinu, og væri þar horfnar fyrir víst tvær tóttir, er hefði verið norður af þessari röð. Ein tótt er fyrir ofan röðina, 6 fðm. löng og 4 fðm. breið. Þar litlu ofar sést rúst kotsins; er hún lítil, og getur vel verið bygð uppúr stórri búðartótt. Neðanundir brúninni norðantil eru 3 tóttir í röð, og norðvestur frá hinni nyrztu þeirra er ein tótt stök. Litlu vestar verður fyrir önnur brún, samhliða hinni, en lægri. A henni eru 7 tóttir í röð, og er hin syðsta hérumbil hringmynduð, 5 fðm í þvermál (útfyrir veggi) Annar hringur er milli næstnorðustu og norðustu tóttar í þessari röð; hann hefir verið miklu stærri, en sést nú ekki nema hálfur eða þarumbil, því á þeim stað stendur nýleg rétt eða stekkur, sem hylur hann öðrum megin. Enn er tóttaröð fyrir neðan þetta barð; þar eru aðeins 5 tóttir, og eru þær flestar á meðal hinna minstu. Tvær þeirra eru samfastar á endum. — Engin sjást verksummerki tótta frá seinni tíð, nema kotstóttin og stekkjartóttin, sem nú var getið (sbr. II. mynd).

Það sýnir búðafjöldinn sem hér hefir verið, að menn hafa fjölment til leiðarþinga, og þau hafa staðið yfir svo dögum skifti. Er líklegt, að fleira hafi farið þar fram en yfirlýsingar einar.

---

## Fjósatunguþingstaður.

Svo segir í Ljósvetningasögu, 4. k.: »Þeir áttu þá þing í Fjósatungu upp frá Illugastöðum.» Þetta er ekki nákvæmt í sögunni. Fyrst er nú það, að Fjósatunga er ekki »*upp* frá» heldur *út* frá Illugastöðum; og annað er það, að þingstaðurinn er ekki »í« Fjósatungu; hann er á móts við Fjósatungu hinum megin Fnjóskár. Samt hefir hann verið í Fjósatungulandi, því í þá daga, og til skamms tíma, átti Fjósatunga ítak austanmegin árinnar í Þórðarstaðaland. Þar er þingstaðurinn á árbakkanum. En því miður hefir áin brotið bakkann svo, að lítið er eftir af þingstaðn-

um. Að vísu hefir áin lagst frá aftur, nema lítil kvísl, er enn rennur með bakkanum. Brýtur hún enn bakkann sunnantil, og eru hinar síðustu tóttaleifar þar komnar að því að brotna burt. Syðst sér þar í hring, og er brotinn af honum helmingur eða meira. Sagði Jónatan mér, að þá er hann mundi fyrst eftir, hefði eigi meira verið brotið af hringnum en á að gizka þriðjungur; hefði hann eigi verið alllítill. Norður frá honum sér bakvegg af tótt, og þá enn litlu norðar bakvegg af annari, sem hefir verið mjög löng; svarar því, að þar hafi verið tvær búðir samfastar á endum. Þá er lengra dregur norður, er áin fyrir löngu hætt að brjóta bakkann; hefir þar gróið upp dálítil fit undir bakkanum og hann sjálfur hefir orðið að brekku. Þar er búðartótt á brekkubrúninni, og er það eina tóttin, sem heil er á þessum stað. Fyrir ofan þingstaðinn er brekka, brött en eigi allhá. Fyrir ofan hana er hjallamynduð flatlendisspilda, og þar er ein tótt einstök, stór og glögg. Er sagt að hún tilheyri þingstaðnum og sé búðartótt; enda hefir hún útlit til þess. En af því hún er tiltölulega langt burtu, þykir mér það þó efasamt. Svo segja munnmæli, að á Fjósatunguþingstað hafi einhvern tíma fyrrum verið sett kot, er heitið hafi Litlu-Þórðarstaðir. Rúst þess getur nú vel verið horfin ásamt mörgum búðatóttum; sem vissulega eru afbrotnar; en eigi er þess kots getið í jarðabókum, (Sbr. III, mynd).

---

## B. Eyjafjarðarsýsla.

### Vaðlaþingstaður.

Svo segir í Víga-Glúmssögu, 27. k.: »Hann (Glúmur) átti ok at helga haustþing; en þingstöðin er fyrir austan fjörðinn, skamt frá Kaupangi». Þetta er rétt; þingstaðurinn er stuttri bæjarleið fyrir utan Kaupang. En næsti bær við hann nú á dögum er Litla-Eyrarland, og er það fyrir utan hann. Vaðlaþing hefir verið kent við vaðlana í fjarðarbotninum, sem Eyjafjarðará hefir myndað, og myndar enn, með árburði sínum. Nú ríða menn um fjöru þvert yfir frá Akureyri að Litla-Eyrarlandi. Á söguöldinni hafa vaðlarnir eigi náð svo langt úteftir. Þá hafa verið vaðlar þar, sem nú eru eyjar, en fjörðurinn hefir náð innundir Kaupang. Nafnið sýnir, að þar hefir verið kaupstaður. Sjór hefir þá gengið inn með melbrekkum þeim, sem þingstaðurinn var uppi á. Þær eru allbrattar, en þó eru skörð í melbrúnina á ýmsum stöðum, eru þau grasi vaxin, sum stærri, sum minni. Eitthvert stærsta skarðið myndar dálítið dalhvarf upp í milli hæða þeirra, sem ganga frá melbrúninni upp að fjallinu (Vaðlaheiði). Rennur lækjarsytra ofaneftir dalhvarfinu. Norðanvert við lækjarsytruna eru 8 (eða þó heldur 9?) búðartóttir í röð niður með norðurbrún dalhvarfsins. Hin efsta þeirra er uppi undir botni þess; hún er sérstök og girðing í kringum hana, líklega víggirðing (?). Þá eru 4 áfastar hver annari. Hin efsta

I. **Leiðarhóll** (Reykdælaleið).




II. **Leiðarnes** (Ljósvetningaleið).




III **Leifar af Fjósatunguþingstað.**



þeirra sýnist að hafa smátótt bakvið sig. Grafið hefir verið í hana við efri gaflinn; verður lengd hennar því ekki mæld með vissu, en tæplega er hún 4 fðm. Tvær hinar næstu eru stærri, 5 og 7 fðm. langar; ganga þessar 3 tóttir hver af enda annarar. Dyrnar eru á hliðinni sem að dalhvarfinu snýr. Baktil við hina neðstu af þessum þremur er og tótt, á stærð við hana, og virðist hafa dyr á þeirri hlið, sem að melbarðinu veit. Þessar tvær eru því samhliða. En við neðri enda þeirra er tótt, sem liggur þvert fyrir, og snýr öðrum gafli að melbarðinu, hinum að lækjarsytrunni og á honum hafa dyrnar verið. Neðanvið hana er þúfnarimi, sem gæti verið leifar af tótt, en ekki fullyrði eg það. Móts við þessar tvær síðast töldu tóttir er tótt í suðurbrún dalhvarfsins hinumegin við lækjarsytruna. Hún hefir verið grafin út. Laust fyrir neðan þúfnarimann eru 2 tóttir samhliða, er snúa framgaflinum, er dyrnar hafa verið á, niður að mynni dalhvarfsins. Er hin syðri þeirra, sú sem nær er lækjarsytrunni, allvel glögg; hin, sem nær er melbarðinu, er óglöggvari. Fleiri búðartóttir sjást ekki með vissu, utan ein sérstök, sem er spölkorn uppi í móa þeim, sem er fyrir norðan og ofan dalhvarfið. Sú tóttin er einna lengst: 10 fðm. Hinar eru ekki meira en frá 4 til 7 fðm. Norðanvert við dalhvarfið er lágt og slétt hæðardrag; hallar því jafnt ofan frá móanum, þar sem hin sérstaka búðartótt er, niður á melbrúnina, sem í upphafi var getið. Hæðardrag þetta er mjög áveðurs og er það blásið neðantil. Þar geta margar búðartóttir verið horfnar. Því nærri má geta, að á Vaðlaþingi hafi verið margfalt fleiri búðir en nú sjást leifar af. Og er þá ekkert líklegra en að þær hafi staðið á hinu slétta hallalitla hæðardragi. Neðst á því sunnantil er dálítill grasblettur, og jarðvegurinn þó mjög þunnur og veðurbarinn. Þar sér þrjá hryggi eða bala, er liggja samhliða frá norðri til suðurs; gæti þeir eftir afstöðu sín á milli, verið leifar af búðaveggjum. Þó efast eg um að svo sé, því mér virðist jarðvegurinn þar líkjast nýgræðingi. Og sama er að segja um dálítið, hringmyndað grashvolf, sem þar er litlu ofar; það líkist fremur nýgræðingsbletti en fornaldarhring. Þó skal eg láta það ósagt. En hvað sem um það er, þá kæmi það mætavel heim við Víga-Glúmssögu, að búð Einars frá Þverá hefði verið þar, sem hinir þrír hryggir eru. Liggur beint við að hugsa sér, að Glúmur hafi gengið frá lendingunni uppí minni dalhvarfsins upp undir hinar neðstu búðir, snúið þar við og gengið til norðurs uppá melbrúnina og ætlað að ganga norðureftir henni fyrir neðan þær búðir, sem þar voru, — annaðhvort af því, að búð sjálfs hans hafi verið dálítið norðar, eða hann hafi ætlað að heimsækja vini sína, er þar hafi átt búðir. — Hafi þá Einarsbúð verið þar, sem hryggirnir eru, þá var í lófa lagið fyrir nógu marga menn að hrinda þeim Glúmi ofanfyrir melbrekkuna, er þeir gengu inneftir brún hennar þar beint niðurundan. Það var eins og eg sæi það, þegar eg var staddur á þessum stað; svo vel sýndist mér alt standa heima.(Sjá IV. mynd).

G á s e y r i (G æ s a e y r i).

Fárra hafna hèr við land er jafnoft getið og Gása eða Gáseyrar. Var þangað mikil sigling fyrrum. Enda hefir þar verið ágæt höfn. Þar fyrir framan liggur eyrargrandi í boga fram í sjóinn. Hefir pollurinn fyrir innan eyrina fyrrum verið nógu djúpur fyrir hafskip og bæði lygn og rúmgóður. En nú er Hörgá fyrir löngu búin að fylla pollinn af sandi, svo að hann er mestallur orðinn örgrunnur. Af þeirri orsök hefir Gásakaupstaður lagzt af. Svo er að sjá sem þar hafi verið farið að myndast þorp. Þar er mesti fjöldi tótta. Liggja þær á sléttri grund með sjónum, og eru í 2 röðum. Liggur önnur nær sjónum, hin á bak við hana. Virðist hvor röðin fyrir sig hafa verið samanloðandi bygging, svo að varla nokkurstaðar er hægt að greina eina tótt frá annari, og því ekki heldur að telja þær. En margar virðast þær vera, því raðirnar eru langar. Munnmæli segja, að það hafi verið orðin venja stórbænda í Eyjafirði, að eiga búðir að Gásum og sitja þar með konum sínum og dætrum lengri eða skemmri tíma á hverju sumri, meðan kaupstefna stóð yfir; hafi þar verið skemtanir góðar. En líklègt er, að þar hafi þó eigi verið eintómir sumarbústaðir, heldur meðfram stöðug bygð árið yfir; má ráða það af því, að þar hefir verið kirkja. Er dálítil brún fyrir ofan grundina, sem tóttaraðirnar eru á, og á þeirri brún hefir kirkjan staðið. Sér glögt fyrir kirkjugarðinum og kirkjutóttinni í honum. Er garðurinn hér um bil kringlóttur, nál. 18 fðm. í þvermál; hefir hliðið snúið mót austri og að tóttaröðunum. Kirkjutóttin er nál. 7 fðm. löng. Byrjað hefir verið á að grafa í kórinn, en hætt við aftur. — Nú er að eins einn bær á þessum fræga stað; hann er vanalega nefndur »að Gæsum», og er hann skamt suður frá tóttaröðunum

---

Í S v a r f a ð a r d a l.

Þá er eg fór um Svarfaðardal, bar eg bæjanöfn og örnefni saman við Svarfdælu og Valla-Ljótssögn, eftir því sem eg gat við komið. Bar þeim víðast heim. Raunar er torvelt að átta sig á örnefnum, þar sem segir frá ferðum manna, því þar fara þessar sögur svo fljótt og ógreinilega yfir. Treysti eg mér ekki til að fara langt útí það á svo naumum tíma. Að eins skal eg geta þess, viðvíkjandi Valla-Ljótssögu, að þar sem hún segir í 9. kap: »Narfi mælti: Ljótr mun ok ríða hit efra með fjallinu ok ofan að Vallabæ», þá er þetta eigi skiljanlegt, þar er eigi er gerð grein fyrir, hvaðan Ljóts var þá von. Og síðar í sama kap. segir frá því, að þá er Ljótur kom út úr fjárhúsinu og þeir Guðmundur vildu taka hann, þá hafi hann hlaupið í gljúfrið fram, og er að skilja, að gljúfrið væri rétt hjá fjárhúsinu. Nú er þó ekki annað að sjá, en að sagan meini Vallafjárhús og að Ljótur hafði komið heiman frá Völlum er hann gekk til fjárhússins. En svo hagar til, að hjá Vallafjárhúsum er ekkert gljúfur og hvergi í nánd Völl-

um. Þar er ekki annað gljúfur nær en Hofsárgilið. Og Hofs fjárhús standa svo nærri því gljúfri, að þar getur frásögn sögunnar átt við. Hér er því einhver ónákvæmni í sögunni. En úr henni má greiða með því, að gera ráð fyrir, *að* Ljótur hafi átt annað bú að Hofi, haft fé við Hofs fjárhúsin, og hirt það sjálfur, *að* það hafi verið að Hofi, sem »þeir frændur voru komnir allir til boðs» og *að* þaðan hafi Ljótur komið, er hann gekk til fjárhússins. Þá verður það og skiljanlegt, að hann hafi stundum riðið frá Hofs fjárhúsunum »hið efra með fjöllunum og ofan að Valla bæ», eins og Narfi gerði ráð fyrir. Í fljótu bragði sýnist nú raunar, að sagan mótmæli þessari tilgátu, er hún segir í 3. kap. að Björn Þorgrímsson hafi búið að Hofi. En þegar að er gáð, fellir hún sjálf þau mótmæli burtu, því hún segir í 7. kap. frá því, að Sigmundur »kom um nóttina til *Hofsár* til Bjarnar. Á öðrumhvorum staðnum er þá bæjarnafnið skakt. Og er þá ólíklegra að »Hofsá« sé misritað fyrir »Hof», heldur enn »Hof» fyrir »Hofsá«. Hygg eg því að skekkjan sé í 3. kap. og að Björn hafi búið að Hofsá. Þá er ekkert á móti því, að Ljótur hafi haft annað bú að Hofi, og þá verður öll frásögnin, sem fyr er talin, skiljanleg og eðlileg.

Viðvíkjandi Svarfdælu skal þess getið, að rústir sjást í nesinu við ána fyrir neðan Klaufabrekku. En þar segir sagan að bærinn Klaufanes hafi verið. Þar skamt frá er pyttur sá, sem sagt er að blýstokknum með ösku Klaufa hafi verið sökt niður í. Þykjast menn eigi vita, hve djúpur sá pyttur er. — Óþokkadæl heitir enn hjá Hofi. En um tótt hofsins er ekkert hægt að segja, því síðar hefir verið bygt ofaná hana.

---

## C. Skagafjarðarsýsla.

### Í Hjaltadal.

Um *Hof í Hjaltadal* er ritað í Arbók Fornleifafjelagsins 1888—92, því Sigurður Vigfússon rannsakaði fornvirkin þar sumarið 1886, og hefir hann skýrt svo ítarlega frá þeim, að eg hefi engu þar við að bæta öðru en því, að norður af hól þeim sem fjárhúsin standa á, og hofið hefir, að ætlan S. V., staðið á, gengur lækkandi rani nokkuð langur. Eftir honum norðanverðum liggur tóttaröð mikil og samanloðandi, og líta glöggvustu tóttirnar út fyrir að vera bæjarhúsatóttir. Og sé það rétt, þá er annaðhvort, að þar hefir bærinn staðið í fyrstu, eða fleirbýli hefir verið að Hofi á sínum tíma. Um »skálatóttina», sem S. V. lýsir bls. 108 segja munnmæli, að hún hafi verið bygð til þess, að drekka í henni erfið mikla eftir Hjalta. Enda er hún flestum tóttum stærri, þeim er eg hefi séð. Mældist mér hún nál. 18 fðm. löng og 7 fðm. breið útfyrir veggi (faðmarnir voru stignir). Afhúsin eru næstum jafnstór að sjá, um 3 fðm. á hvern veg hvert um sig. Hefir verið innangengt í tvö þeirra, en hið þriðja virðist að hafa haft útidyr.(Eg dró tóttina upp, sbr. VII. mynd).

Um *Hóla í Hjaltadal* skrifaði S. V. í sömu árb., og lýsir þar einkum skrautgripum kirkjunnar. Nú eru þeir komnir til Forngripasafnsins í Rvík allir nema róðukrossarnir, altaristaflan og skírnarfonturinn. — Var fullyrt við mig að steintegund sú, sem fonturinn er gjörður af, finnist uppi á Tindastól, og væri vert að rannsaka, hvort svo er. — Nú er búið að breyta allri gerð kirkjunnar að innan; þar er nú allt eftir nýjustu tízku, en öll fornmenja-einkenni horfin. Var mér sagt, að þá hefði menn hætt að hafa mætur á slíku, er myndirnar voru farnar úr kirkjunni: var að heyra, að menn hefði mjög saknað þeirra, enda þótt þær væri eigi eins vel geymdar í kirkjunni eins og í Forngripasafninu. Nú er líka komið timburhús í stað bæjarhúsanna á Hólum. Stendur húsið hærra uppi á túninu, og er þar fegra útsýni. En dapurt er að sjá rústirnar einar eftir af hinum fræga stað við hlið kirkjunnar og kirkjugarðsins. — S. V. lét taka afrit af legsteinum þeim, sem innan kirkju eru og prenta í Árb. En eg lét taka afrit af þeim, sem í kirkjugarðinum eru læsilegir.

---

## Hegranessþingstaður.

Mér þótti ófróðlegt að koma ekki á Hegranessþingstað, þó eg vissi vel, að eg þurfti ekki að bæta upp lýsingu Sigurðar Vigfússonar á þeim stað (Árb. Fornlfél. 1888—92) né uppdrátt Capt. Daniels Bruuns af honum (Fylgirit við Árb. 1899), sem hvorttveggja lýsir mikilli vandvirkni. En mér var sérstaklega forvitni á að skoða hringana, sem þar eru, og glöggva mig sem bezt eg gæti á því, hvort þeir liti út fyrir að vera frá sama tíma og búðatóttirnar eða ekki. Eg verð nfl. að játa það, að eg á bágt með að trúa því, að alt sem sagt er í sögum og munnmælum um »dómhringa« og »lögréttur» fornmanna, sé tilhæfulaust. Og það er einmitt á Hegranessþingstað, sem Grettla (kap. 72.) nefnir lögréttu, Því þótti mér sérstök ástæða til að skoða þann hring, sem á þessum stað er nefndur lögrétta í munnmælum. Það er hinn stóri hringur, sem á uppdrætti Capt. D. Br. er merktur c. Þessi hringur er frábrugðinn öllum öðrum slíkum hringum, þeim er eg hefi séð, að því, að hann er fyltur upp innan, svo að slétt er útaf honum alstaðar nema þar, sem túngirðing er sett á brún hans. Alstaðar, nema þar, er hann utantil hnéhár eða meira og mjög fornlegur. Hér er því ekki um eiginlegan *hring* að ræða, heldur um afarstóran, kringlóttan *pall,* sem ekki kemur til mála að notaður hafi verið sem hestarétt, fjárrétt eða neitt þesskonar. Sem búnaðar-mannvirki er hann til alls ólíklegur, nema ef vera skyldi heystæði. En margt mælir þó móti því, að svo hafi verið: *að* hann líkist alls ekki hinum fornu heystæðum eða stakkgörðum, sem víða má sjá; *að* hann er óþarflega stór fyrir hið litla hey af tún-gerðinu, og um annað hey hefir hér ekki verið að ræða, og það sem mestu skiftir, *að* hér er svo veðurnæmt, að engum heilvita manni hefði dottið í hug að hafa hér heystæði án öflugs skjól-

garðs í kring, og sízt svo hátt, sem þetta mannvirki hefir verið meðan það var ósígið. Sáðgarður, t. a. m. hvanngarður, hefði heldur ekki verið fyltur upp að innan, því síður sem hér hefði verið meiri þörf á, að hann gæfi gott skjól. Engu líklegra er, að þessi upphækkun hafi verið búin til undir kofa þá, er einhvertíma hafa verið settir á hana; slíkt erfiði hefði menn ekki lagt á sig að óþörfu, þar eð hér eru góð húsastæði hvar sem vill. En á hinum forna palli gat verið álitlegt að byggja; er og auðséð, að hann er eldri en kofatóttirnar. Eg get ekki séð annað líklegra, en að munn mælin hafi rétt að þetta sé lögréttan, sem Grettla nefnir Samt sem áður verður þessi niðurstaða að vera því skilyrði bundin, *að líklegt geti talist, að slíkir afmarkaðir staðir hafi tíðkast á þingum fornmanna.* Og í því efni tjáir ekki að binda sig eingöngu við það, sem stendur í sögunum eða lögunum fornu. Sögurnar geta lítið um slíkt, af því það kemur vanalega ekki söguþræðinum við; og hin rituðu lög eru yngri en svo, að í þeim geti það átt heima, sem gilti fyrir lög fyrst framan af, meðan landið var nýnumið. Fyrst eftir landnám var hvert goðorð nokkurs konar ríki fyrir sig, og af því leiddi, að hin fyrstu þing voru háð annaðhvort eitt fyrir hvert goðorðsumdæmi, eða þá fyrir fáein goðorð í samfélagi, sem sameinast höfðu til þess af frjálsum vilja. Slík þing voru öllum óháð nema hlutaðeigandi goðum, er kvöddu þau saman þegar þeim sýndist,ýmist til að setja niður ágreiningsefni, eða til að gera nauðsynlegar fyrirskipanir, er síðan giltu sem lög fyrir hlutaðeigandi þinghá. Þá voru goðarnir raunar nokkurs konar einvaldsdrotnar, hver í sínu umdæmi, og ekki skyldir að halda þing, fremur en þeir vildu. En bæði voru menn hneigðir fyrir samkomur, og líka hefir mörgum goða þótt hyggilegra, að semja fyrirskipanir sínar með beztu manna ráði; svo þurftu og allir þeir, er fyrirskipuninni áttu að hlýða að heyra hana, og var því nauðsynlegt, að sem flestir þeirra kæmu saman til þess. Og til að tryggja hlýðnina settu goðarnir þinghöldin í samband við átrúnaðinn; þeir »helguðu« þingin af sínu andlega valdi, svo að alt, sem þar gerðist, skyldi hafa bindandi gildi. Til þinganna sótti nú fjöldi manna, karla og kvenna, og hinn helgaði þingstaður var þeim öllum heimill. En að eins fáir tóku þátt í þingstörfum: þeir er goðinn kvaddi til að ræða um þau málefni, er fyrir lágu. Þeir þurftu að hafa næði og vera afsíðis; handa þeim þurfti að afmarka sérstakt svið með sérstakri helgi, er þeim, en engum öðrum, væri heimilt. Lá þá beint við að friða slíkt helgisvið. Það mátti gera með þrennu móti: *annaðhvort* umgirða það, *eða* hleypa því upp, *ellegar* setja niður stengur í kringum það og festa strengi á Allar þessar aðferðir munu hafa tíðkast framan af, meðan það var frjálst og menn gátu haft það eftir því sem þeim sýndist á hverjum stað. Sú aðferðin, að hleypa sviðinu upp, hefir líklega verið fátíðust, því hún var starfamest. Að strengja um sviðið var hæg-

ast og hefir því ef til vill orðið almennast með tímanum. Er eigi ólíklegt, að svo hafi verið gjört á alþingi. En eftir þá aðferðina geta engar menjar sést. Eigi er ólíklegt, að *hringir* utan um starfssvæði þinga hafi verið nokkuð tíðir framan af; átti þá við að kalla þá hvort sem vildi *dómhringa* eða *lögréttur*, ef sami hringurinn var ýmist notaður til að dæma þar mál eða taka ályktanir um eitt eða annað, sem fyrirskipa þurfti í hlutaðeigandi þinghá. Hefir það þá farið eftir atvikum, hvort nafnið fremur festist við hringinn. Hugsanlegt er, að lögréttu-*nafnið* sé yngra en frá þjóðveldistímanum, og tekið upp eftir nafni lögréttunnar á alþingi, af því að meðvitundin um skyldan tilgang hafi vakað í minni manna. En það er eins vel hugsanlegt að nafnið sé fornt. Það kemur í sama stað niður.

Nú kemur það til athugunar, að *hringar*; *sem kallaðir eru lögréttur*, eru víðar en á þingstöðum: þeir eru líka hjá fáeinum bæjum, sem voru höfðingjasetur til forna, t. a. m. í Hvammi í Hvammssveit og Grund í Skagafirði o. fl. Þess hefir verið getið til, að þessir hringar sé raunar *fjárréttir*, »lögréttir«, en *lögrétt* hafi svo breyzt í *lögrétta*. En móti þessu mælir: *að* orðið »lögrétt« er ekki til í daglegu tali Það kemur fyrir í lagamálinu og mun vera komið þaðan í Svarfdælu; *að* »lögrétt« er að eins haft um opinberlega ákveðna sundurdráttarrétt fjár, sem rekið er af fjalli á haustin. Eru slíkar réttir auðkendar á því, að þær hafa sína *dilka*; þeir eru þar óhjákvæmilegir; en hringarnir hafa enga dilka; og *að* staðirnir, sem slíkir hringar eru á, — sumir, að minsta kosti — eru óhentugir til sundurdráttar. Fremur er hugsanlegt, að þetta hafi verið heimafjárréttir eða sáðgarðar. En mér sýnist líka hugsanlegt, að höfðingjar, sem bjuggu á þessum stöðum, hafi boðað þingmenn sína á fund heima hjá sér, að þeir hafi umgirt þar og helgað fundargjörðarsvið og að sú girðing hafi svo fengið lögréttu nafn, í líking við tilsvarandi stað á þingum. Um þetta segi eg að eins að það sé *hugsanlegt*, engu síður en hver önnur tilgáta.

Á Hegranesþingstað er það að eins stóri hringurinn eða pallurinn, sem eg hefi haft tillit til í hinu framanritaða. En um hinn litla hring, sem á uppdrætti kapt. D. Bruuns er merktur með *b*, er það að segja, að mér sýnist hann heldur nýlegur, nýlegri en túngirðingin, og er hún þó nýlegri en búðatóttirnar. Hann hefir samt ekki verið fjárrétt, því hann er dyralaus En hann getur hafa verið sáðgarður (t. a. m. hvanngarður, og tilheyrt kotinu, sem sagt er að hér hafi verið um hríð og heitið Litli-Garður. Þar er nú stekkur, sem sagt er að kotið hafi verið, og er því rúst þess horfin. En sögnin um kotið styðst einkum við nafnið og við túngirðinguna. Eigi er þess getið í jarðabókum, og mun það að eins hafa verið bygt um stuttan tíma.

Það er ekki af neinni »tröllatrú« á »dómhringa« og »lögréttur«, að

eg hefi notað tækifærið hér að framan til að segja álit mitt um það mál. Eg fell að sjálfsögðu frá því ef gildar sannanir koma á móti því.

---

Héraðsvötnin á Sturlungatíð.

Svo segir í Sturlungu, 6. þ. 13 kap (1. útg.): »Sturla reið þá í Hegranes ok var í Ási frjádaginn og laugardaginn Mariomessu . . . . en eftir Maríomessu reið hann upp í Sæmundarhlíð með flokkana ok á Langholt . . . . *Sturla reið þá norður* (sum.: austur) *yfir vötn ok fundust þeir* (Sighvatur) *við Vallnalaug*«. Eftir því sem Héraðsvötnin renna nú, er þetta ekki skiljanlegt. Ekki þarf að fara yfir þau, þótt farið sé af Langholti til Vallnalaugar. Þá er að eins Svartá yfir að fara. En hún getur ekki verið kölluð »vötn«. Það er ekkert umtalsmál, að þá er Sturla reið norður yfir »vötn«, þá eru það Héraðsvötnin, sem svo eru nefnd. Þau hafa verið búin að fá það nafn þá þegar. Á þeim tíma hafa þau því runnið milli Langholts ogVallnalaugar. Enda sjást þess merki að að svo hefir verið. Svo hagar landslagi, að Skagafjarðarhéraðið er í heild sinni dalur, mikill og víðlendur Frá botni hans gengur aflangur ás út eftir honum og skiftir innri (syðri) hluta hans í tvo arma; rennur Jökulsá út eftir eystri arminum, en Svartá út eftir hinum vestra Bæjaraðir eru eftir báðum hliðum ássins. Yzti bærinn að austanverðu heitir Vindheimar. Þar mjókkar ásinn og lækkar, og endar í digrum melrana nokkuru utar. Frá Vindheimum liggja brattar melbrekkur út með rananum að austan; þær heita Vindheimabrekkur. Ganga þær frá landssuðri til útnorðurs og mynda eins og sneiðingu á ranann, þar til hann þrýtur. Hefir þar skorist frá enda hans melhóll, er Skiphóll heitir. Hann er grasivaxinn ofan og sumstaðar utan. Nú tekur við víðlent sléttlendi, sem nær yfir mestalt láglendi héraðsins. Það heitir Vallhólmur. Nú á dögum er það þó enginn »hólmur«, því nú liggur það fast upp að Vindheimabrekkum. Í Vallhólmi bólar að eins í einum stað á framhaldi ássins; það er flatt holt, ekki all-lítið ummáls og liggur sunnarlega á Hólminum. Það heitir Vallholt. Skamt austur þaðan er Vallnalaug. Út undir sjó kemur framhald ássins aftur upp og myndar aflanga hæðarspildu. Það er Hegranesið. Það er nú á dögum umflotin ey, því nokkur hluti Héraðsvatna rennur til sjávar fyrir norðan það, en nokkur hluti þeirra fellur vestur um héraðið, skilur Hegranes frá Hólminum, fellur svo í Svartá og með henni til sjávar fyrir vestan Hegranesið. Nafnið *Vallhólmur* eða *Hólmurinn* bendir til þess, að sá sléttlendisfláki hafi á sínum tíma verið umflotin ey. Enda er efsti hluti hans, frá Vindheimabrekkum og langan veg út fyrir Skiphól, ekkert annað en árburður: uppgrónar eyrar með kvísla farvegum hér og hvar. Jarðvegur á eyrum þessum er því þykkari, sem utar dregur, eða nær Hólminum, Bendir það til þess, að lengst muni

vera síðan vötnin runnu þar. En þau *vötn* voru *Jökulsá*, sem þar hefir þá runnið yfir í Svartá. Nú er það sameiginlegt fyrir öll þau vötn, sem langt koma ofan úr fjöllum og ekki sízt jökulvötnin, að í vatnavöxtum ryðja þau svo og svo mikilli grjótmöl ofan með sér þangað sem hallinn minkar og straumurinnn verður lygnari. Þar nemur grjótmölin staðar í botni farvegsins, og er það kallað að vötnin »beri undir sig«. Og þau bera undir sig, þangað til farvegurinn verður þeim of grunnur. Þá víkka þau hann til hliðanna, oftast þó meira til annarar, eftir því sem landslag er til. Þar kemur, að farvegurinn verður allur nýr. Í þann farveg bera þau aftur undir sig; brjóta sér þá enn nýjan farveg og svo gengur koll af kolli. Þannig hefir Jökulsá í Skagafirði hagað sér; eftir því sem hún bar undir sig norður við Hólminn, eftir því braut hún sér farveg norður á við, ekki færist hún öll í einu úr stað, heldur myndast kvísl eftir kvísl, sem ýmislega brjótast saman og sundur. Þá hefir hún dreift sér meir og meir um eyrar þær, sem hún myndaði jafnóðum; og af því hún er þá í mörgu lagi og slær sér út um héraðið, fær hún nafnið *Héraðsvötn*. Þannig færist hún meira og meira suður á við og eftir langan tíma er hún komin fast upp að Vindheimabrekkum. Þá hefir þar að líkindum verið undirlendi, sem hún hefir brotið burtu, grafið sig svo inn undir rætur brekknanna, svo þær hafa hrapað ofan og orðið að snarbröttum melbrúnum, sem þær eru nú. Eftir því sem brekkurnar brotnuðu, mjókkaði endi ássins, og það því meir, sem lengra dregur út með rananum, því þar kastar straumurinn sér fastara og fastara að. Á einum stað, lengst út með rananum, grefur straumþunginn vik inn í hann, og vikið smástækkar, og verður loksins að skarði í gegnum ranann. Skiphóll er losnaður frá. Fram úr því skarði brýzt nú áin, og svarar vídd þess því, að hún hefði runnið þar öll um tíma. Hún grefur sig svo niður í skarðinu, að þar verður lygn hylur. Má vel vera, að þar hafi verið ferjustaður um hríð, og Skiphóll fengið nafnið af því. Það er eigi ólíklegt, að hér hafi hún einmitt runnið á Sturlungadögum. Sturla »reið« samt yfir hana, en fór ekki á ferju. Hefir þá verið vað á henni nokkuru neðar, eftir að hún kom í Svartá. Allan þann tíma, sem Jökulsá rann yfir í Svartá á þessum svæðum, hefir bæði Hegranes og Hólmurinn verið áfast efri hluta Blönduhlíðar, en Djúpá hefir ávalt runnið til sjávar austan vert við Hegranesið. Þá var réttnefni að kalla það *nes*. — Það er lögun eyranna og gróðurinn á þeim, sem mér virðist benda til þess, að vötnin hafi fært farvegi sína á þann hátt, sem nú var sagt: legið einna síðast upp við Vindheimabrekkur og fallið út milli Skiphóls og ranans og svo í Svartá. En hér báru þau enn möl undir sig, og þar kom, að þau hættu að hafa rúm í skarðinu, þar rann síðast djúp og mjó kvísl, en eyrar á báða vegu við hana. Eftir því sem árburðurinn hækkaði þar og framrás vatnsins varð torveldari, eftir því tóku vötnin að kasta sér meir

## IV. Leifar af Vaðlaþingstað.




## V. »Hoftótt« á Hofstöðum í Mývatnssveit.




## VI. »Ingimundarhöll« við Ingimundarhól í Víðidal.



## VII. »Skálatótt« á Hofi í Hjaltadal.



Pacht & Crone phot.

og meir norður og austur á við. Brjóta þau frá sér jarðveginn, sem var þar fyrir, og fá með því móti lægri farveg í þá átt, heldur en nú var kostur á vestan megin, þar sem alt var fult af árburði. Fyrst komst dálítil kvísl norðaustur í Djúpá, meðan aðalvötnin runnu þó enn vestur í Svartá. Kvísl þessi stækkar óðum, meiri hluti vatnanna legst í hana og hún myndar sér marga og breytilega farvegi. En nú reka vötnin sig á hina feykilegu árburðarskriðu, sem Djúpá hefir borið fram, og hljóta nú, ásamt henni, að gera bug vestur á láglendið. Hinn mikli vatnsþungi, sem nú legst í þann bug, grefur sig æ lengra til norðvestur, og þar kemur, að kvíslin brýzt út með Hegranes-hæðinni sunnanverðri yfir í Svartá. Þar heitir nú Affall. Mestur hluti vatnanna rennur þó út úr Djúpárósi. Og enn rennur kvísl út með Vindheimabrekkum og út úr Skiphólsskarðinu til Svartár. Nú er Vallhólmur umflotinn og réttnefndur *hólmur.* Þessi síðastnefnda kvísl heldur þó áfram að bera undir sig, þar til hún kemst ekki lengur fram. Falla nú öll vötnin út með Blönduhlíðinni. Djúpá er nú hætt að vera sjálfstæð á lengur en út eftir dalnum og fram af skriðunni; þar sem hún hafði áður runnið sem *djúpur graflækur* út eftir láglendinu, þar renna nú Héraðsvötnin. Nú er hún því ekki lengur kölluð Djúpá, heldur Djúpadalsá, eftir dalnum, sem hún kemur fram úr. Eins hefir það verið með Svartá, meðan Jökulsá rann yfir í hana, að hún hefir ekki haldið nafni sínu lengra en þangað til þær komu saman. Því er svo kveðið að orði, að Sturla reið norður (eða austur) yfir *vötn*, er hann fór af Langholti til Vallnalaugar. Aðrir staðir í Sturlungu, þar sem Jökulsá er nefnd, eru of óakveðnir til þess,, að hægt sé að taka þá til samanburðar.

---

## Skeljungssteinn.

Af því leið mín lá fram hjá Skeljungshóli, skoðaði eg hólinn og steininn *Skeljungsstein*, sem er svo kunnur í þjóðsögum. Hóllinn myndar nef, sem skagar út á eyrarnar, er Norðurá hefir myndað fyrir innan Silfrastaði. Í fljótu bragði sýnist svo, sem á hólnum hafi staðið stóreflis-bær, sem þar séu margar og stórar tóttir eftir. En þegar betur er að gáð, sést að svo er ekki. Dældir þær og hryggir á hólnum, sem svipar til tótta, hafa enga reglulega skipun, og auk þess er þar mikið af svo stórum steinum, að ekki kemur til mála, að þeir séu þangað færðir af mönnum. Það hefir einhvern tíma fyrir löngu hlaupið skriða úr fjallinu fram á nefið og myndað þar upphækkun með óreglulegum hryggjum og dældum, sem síðan hefir gróið upp. Í skriðunni hefir verið mikið af stórgrýti, og standa margir steinar enn upp úr jarðveginum. Einn þeirra er Skeljungssteinn. Hann er nú hvorki stærri en sumir aðrir steinar þar, né heldur er hann svo settur, að veki eftirtekt, eða að tilefni sýnist til að gefa honum sérstakt nafn. Hann er nál. 1 al. hár upp úr jörðu, rúml 1¼ al. langur og

og allt að 1 al. þykkur að neðan, en þynnist uppeftir. Efnið í honum er »basalt«, eins og í öðrum steinum þar og í fjallinu fyrir ofan. Það sem gjörir stein þenna merkilegan eru götin sem í gegnum hann eru. Þau eru 2 fyrir ofan svörð, en sagt er að hið 3 sé sokkið í jörð. Þau liggja gegnum hann endilangan, hvort við hliðina á öðru, með svo sem 5 þuml. millibili, og er annað lítið eitt ofar en hitt. Þau eru kringlótt, svo sem 3 þumlungar að þvermáli, eða þó tæplega það, þráðbein og slétt innan, að því er séð verður, jafnvíð og jafnlangt á milli þeirra til til beggja enda. Útlit hafa þau til að vera mannavirki, en að öðru leyti er það þó ólíklegt að svo sé. Það ekki hægt að sjá, í hvaða tilgangi þau gætu verið gerð, en alt of seinlegt og vandasamt verk til þess að það geti verið gert tilgangslaust. En ekki liggur heldur opið fyrir að sjá, hvernig náttúran hefir gert þau. Mér datt í hug, að vera mætti, að er »basaltflóðið«, sem steinninn er úr, storknaði, hefði trjáteinungar orðið innan í því, og væri götin eftir þá; Þó þykir mér það ekki vel líklegt. Vil eg því fela vísindamönnum að skera úr þessu. Eg get þess hér, af því sögnin segir, að maður hafi borað götin. Og það er *satt*, að þau *eru* á steininum.

---

## D. Húnavatnssýsla.

»Ingimundarhöll«.

Svo segir í Vatnsdælu, 14. kap. »Þá mælti Ingimundr: Sjá dalr er mjök víðivaxinn, köllum hann Víðidal, ok hér ætla ek líklegt til vetrsetu. Þeir voru þar vetr annan, ok gerðu sér þar skála, er nú heitir Ingimundarhöll«. Enn í dag heitir Ingimundarhóll í Víðidal. Það er stór, einstakur hóll á nesinu þar sem Faxalækur kemur í Víðidalsá. Fylgir sú sögn hólnum, að Ingimundur hafi haft þar vetursetu. En Ingimundar-*höll* er fyrir löngu gleymd[1]. Þá er eg ferðaðist um Húnavatnssýslu sumarið 1894, kom eg því ekki við að skoða Ingimundarhól, og athuga hvort þar sæist forn mannvirki. Því gerði eg það nú. Bjóst eg þó naumast við að sjá glögg merki til skála Ingimundar eftir 990 ár. Þótti mér því mikils um vert, er eg kom þar og sá slíkt mannvirki sem þar er. Rústin er norðan undir hólnum, liggur frá norðvestri til suðausturs og skiftist í 4 tóttir, sem hver gengur af enda annarrar. Hin suðaustasta er stærst, vel 7 faðma löng og 4½ faðma víð, Dyr eru úr norður. enda hennar inn í hina næstu, hún er 10 faðma löng en ekki nema 4 faðma víð. Hún hefir útidyr á eystri hliðvegg, og aðrar dyr úr norðurendanum inn í hina næstu tótt, sem er hér um hil jafnstór henni en hefir engar útidyr. Veggir þessara tótta eru mjög mikilfenglegir. Norð-

---

1) **Prófessor Finnur Jónsson ætlar, að »höll« sé mislestur fyrir »hóll«.**
**E. Br.**

asta (norðvestasta) tóttin er minst, ekki nema 3 faðma löng og nál. 2 faðm víða. Veggir hennar eru miklu rýrari en hinna, hún hefir útidyr, en ekki er innangengt í hana. Við vesturhlið 3 hinna fyrtöldu eru furðulega miklar upphækkanir, fult svo breiðar sem tóttirnar sjálfar, en sýnast þó ekki að vera tóttir. Við hina fyrst töldu, víðu tótt er upphækkunin breiðust, en mjóst við hina þriðju og gengur þar að sér. Við norðvestustu, endatóttina, er engin upphækkun. Get eg eigi fremur gizkað á annað um upphækkanir þessar, en að það hafi verið heystæði. Má og nærri geta, að Ingimundur hafi eigi sezt hér að undirbúningslaust. Sagan getur þess, að hann fór í landaleitun. Hefir hann þá riðið á undan norður, valið þennan stað til vetrarsetu, látið byggja þar og afla heyja, svo alt hefir verið tilbúið þegar aðalflutningur hans kom undir haustið. Sérstök tótt er svo sem 100 faðma í norður frá »höllinni«, hér um bil 7 faðma löng og 4 faðma víð, og virðist hafa dyr á austurenda. Eigi gat eg fundið til grjóts í rústinni, hygg eg það lítið veru, enda er hóllinn grjót-lítill melhóll. Mundi því til lítils að grafa hana út. Enda skal eg játa það. að þó eg hefði haft mannafla til þess — sem ekki var — þá mundi eg *ekki* hafa *tímt* að spilla svo merkilegum forngrip, sem þetta mannvirki er. (Sjá VI mynd).



# Um nafnið ‚höfðaletur‘.

Eftir *August Gebhardt*, dr. phil. í Nürnberg.

Í »Árbók hins ísl. Fornleifafélags« 1900, 39. bls., getur Brynjúlfur fornfræðingur Jónsson um getgátur þær, er gerðar hafi verið um uppruna höfðaletursnafnsins. En mér þykir líklegast, að engin af þeim sé rétt.

Í útlöndum brúka menn orð, sem heitir t. d. á móðurmáli mínu, þýzku, *kapitalschrift*, en á latínu *literæ capitales*, og táknar hið elzta rómverska letur, þar sem bókstafirnir eru allir jafnstórir og enginn munur á stórum (þ. e. a. s. upphafs-) stöfum og smáum. Reyndar eru til tvö slík letur: kapítalletrið, sem vér höfum haldið til vorra daga í upphafsstöfum hins latneska prentleturs (hins svo kallaða antiqua-leturs), og uncial-letrið, sem hinir smáu bókstafir latínu- og settleturs eru runnir úr. Aðalmunurinn á þeim er sá, að flestir stafirnir eru rétthyrndir í kapítalletrinu, en bogamyndaðir í hinu.

Hvað nú nafnið *literæ capitales* eða *kapitalschrift* snertir, þá halda menn, að tilefni þess hafi verið það, að þetta letur var mest notað í kapítula-yfirskriftum, þá er menn voru fyrir löngu farnir að rita textann með latínu- eða settletri.

Nú segir dr. Guðbrandur í Öxnafurðu-orðbókinni á 385. bls., að *höfðaletur* þýði *the angular letters found in inscriptions on old tombstones*, en á fornum og nýjum legsteinum finst einmitt það letur, er menn kalla *kapital* í útlöndum.

Reyndar er höfðaletrið eigi rétthyrnt; en það hefir enga sérstaka upphafsstafi, og er þetta aðaleinkenni höfðaletursins í samanburði við önnur letur, sem voru og eru notuð á Íslandi. Enda hefir uncial-letrið aldrei verið notað á Íslandi, svo Íslendingar greindu eigi á milli kapítalleturs og uncialleturs.

Enn fremur þykir mér líklegast, að höfðaletrið hafi í upphafi oftast verið skorið út á súlnahöfðum og rúmstuðlahöfðum, svo þetta hafi gefið tilefni til nafnsins, enda var höfðaletrið mjög vel fallið til útskurðar á súlum og fjölum. Í gömlum húsum hér í bænum, sem eru alt að þriggja eða

fjögra alda gömul, eru fjöldamargar tröppusúlur með ártölum og eigandanöfnum útskornum á höfðunum; svo eru t. d. í voru húsi tvær súlur, önnur með ártalinu 1550, önnur 1551, og er sú tafla, eða sá rammi, sem stafirnir og tölurnar eru á eða í, *alveg eins og á skaftinu á íslenzkum hornspæni*, er eg keypti af bóndapilti, þá er eg var við Geysi sumarið 1888, og sem er með orðinu »geisr« með höfðaletri. Letrið líkist mest myndunum *a* hjá Brynjúlfi, en að eins *g*, *i* og *r* eru aðskilin frá leggjunum með tvöföldum skurði.

Af þessu held eg, að höfðaletursnafnið sé eigi annað en íslenzk þýðing á útlenda nafninu *litteræ capitales*, og styðjist við það, að höfðaletrið var upprunalega mest skorið út á höfðum á trjámunum.

**20. febr. 1901.**

# Legsteinar.

---

## Legsteinar í Keldnakirkjugarði.

---

I. Með settletri.

1. Hier | hviler | Ektaborit b | arn þeirra Ehru | göfugu höfð | ingshiona Jó | ns Guðmund | sonar oc Helgu | Gísladottur Gvunij at naf | (n)i sem i heimin | n fæddist an | no 1630 þ. 17 septembris | err í Guði sætt | sofnaði þann 26 sama mánaðar | og árs. Drottinn er | mín arfleifð. Psal. 16.

(Ártalið er óglögt; getur ef til vill verið 1680).

---

2. Hier hviler | barnkind Od | (ds) Jónsson$^{r}$ | frá Vatzfirði | sem bar nafn sijns afa | S. Guðmund$^{r}$ | To(rv)ason$^{r}$ | sofn að á 1. áre | sijns aldz ao.. 73 | Leifið börn | unum til mijn að k | z ban̄i · þeim | það ekke þ. | S. R.

---

3. Hviler hier hulin | n Skij | lu heiðursmann | digðagreiður Nafn | frægra nitur jafne Ne | fner Grim Jónson | efneð lögriettuman̄ er | lagað liðugt gat margt | til friðar Christur nú gaf | honum kærsta krónu á Dijrðar Fró | ne. Hann fæddest 1689, giptest 1710, griet 1731, og hlaut | so giptu aptur 1736, Lifðe 61 og dó 1750 til lukku skaptur.

(Strikin undir tölunum munu benda á það, að ef þeim er slept, verður eftir vísa með rímnalagi (afhendingu).

---

4 Strijðs lok með | stærsta fryðe | og stórum gæðum fjekk ÞÓRA | GOTTSCHLCS | DOTT$^{7}$ glöggt vottaz | goð IIII ungbarna móðir | að siötta sótte | hana drottinn | sæluvist hlaut hiá Christo | Í hæða helgum gæðum | hliómande h$^{0}$(?) nu liomar H$^{0}$ vr fædd 1703, at heiman gefen 1731, Í hiuskap þreiðe 7 | á aare xti 1738 en aldurs 35 deiðe.

(Strikin undir tölunum merkja sama og á steininum næsta á undan).

---

II. Með latínuletri (breyttu).

5. Sáler riettlátra eru í Guðs hende | Eiríkur Biavrnson hviler | hier hvern Guð til siin | kallaðe 5(?) SPTB? Anno 16' | Sap. 3.

(Manaðardagurinn er óglöggur, en af ártalinu er brotið. Eiríkur bjó á Keldum og átti Þórunni Snæbjarnardóttur bónda þar, Halldórssonar. Faðir Eiríks var Björn bóndi á Keldum, Þorleifsson lögmanns Pálssonat).

---

6. Sap. 3. Animæ | justorum in | Manu Dei | sunt | . Sá guðhrædde | ærugöfuge sæm | darmann Guðm | undur Torva(son) | sofnaðe sæll í Drottne á sinne | sottarsæng z | og heimile a LXVII | are sins aldurs | anno x: MDCLXXII XIII aug. Sálen lif | er i Guðe | líkamenn hier til iarðar lagður.

(Guðmundur Torfason bjó að Keldum og átti Valgerði Halldórsdóttur lögmanns. Hún ásamt dætrum sínum, Guðlaugu og Þórunni, afhendir kirkjuna að Keldum með inuentario 27 júní 1642).

---

7. Hier hvila | heiðurshion | Halldór Guð | munzson og Ingibiörg Halldorssdó | tter husbænd[z] á Reiðarvatni | frá 1811 til 1835 | þau öbluðu auðs mz | iðn z ráðvendni z glö | ddu mz *hm* guma ríka | og þa snauðu eins. B. T.

---

8. Hier hvila | siðpruð gæða | hion sálugi Biarne Hall | dórsson | Góð dæme öðrum gá | fu af sier z Guðríður sál. Eiólfs | dótter. Fæddz $\frac{h\ 1679}{h^{o}1684}$ | giptz 1709 | Börn þeirra 17 | Sálu(ð) $\frac{h}{h^{o}}$ 175 $\frac{7}{6}$

(Þessi hjón bjuggu á Vikingslæk).

---

9. Hier er látinn | líkami veikur | en andinn heill á | hæðum lifir | Páls bónda Guðmunds | sonar á Kjeldum. | Fæddur 29 marti 1762 Dáinn 20 ág. 1828 | Með ótignum var hann merkismaður | að mannviti og fróðleiksgildi | Marglesinn í lögum og lista safni | var hann bókkærri en bændur aðrir | Búhöldur að framsíni og fedrætti | vottar það auður mikill eftir skilinn | Hann var triggfastur og fastur í ráði | stiltur í orðum, spakur og gætinn | hugull við auma og vegfarendur | þolinmóður í veikindum og þraut hverri | Mælti hann aldrei mót forsjón dírri | Metnaðist ei heldur af munaði heimsins. H G. Th. (P. A. s.).

(Páll bjó á Keldum eftir föður sinn Guðmuud Erlendsson, er keypti þá jörð af sr. Guðmundi Magnússyni. Kona Páls var Þuríður Jónsdóttir, systir síra Páls skálda).

---

10. Hjer liggja lík | látinna merkishjóna | Brynjólfs Stephánssonar | er fæddist 23. dag júní 1759 | giptist 1788 | átti 20 börn

hvar at 6 lifa | deiði 24. dag desemb. 1841 | og Helgu Jónsdóttur | er fæddist 27. dag águst 1766 | giptist 1788 | átti 19 börn, hvar af 5 lifa | deiði 16 dag aprílis 1841 | Iðkuðu digð og dáð | dugnað og ráðvant geð | guðhræðslu geislum stráð | gáfum fyrirtaks með | því er nú minning þeirra | gróðursett hjer á grafarbeð 1843.

(Þau hjón bjuggu á Kirkjubæ á Rangárvöllum. Synir þeirra voru þeir, Gísli sál í Flagveltu, Guðmundur sál á Keldum og Stefán sál. á Kirkjnbæ, faðir Brynjólfs á Selalæk).

---

11. Hjer hvílir Þórun Snæbjarnard.

(Á þessum steini hefir aldrei meira ve*r*ið. Þessi Þórunn er án efa kona Eiríks Björussonar, tölul. 5.).

---

12. Apoc. XIV. cap. Sælir eru þeir framliðnu se*m* | í Drottne de...

---

13. Svo sem Drottne | þóknaðest | svo er það skieð.

(Á þessum tveim hefir heldur aldrei meira verið).

---

III Með blöndnu letri.

14. Certus in | eternæ | patriam | migrare | salutis | Saa fróme guðhrædde mañ Tor | ve Eirikss | sofnaðe sæ | tt í Drottne a 52 are sijs aldurs anno | 1640 24 mai | hvers líka ‾ₑ hier en | sálenn með Drottne í eilifre gleðe | lifer |

(Latinu orðin eru með latínuletri, hitt með settletri. Torfi var son Eiríks Björnssonar [tölul. 5]. bjó á Keldum og átti Guðlaugu Guðmundsdóttur prests í Gaulverjabæ. Þau giftust 1611. Þeirra son var Guðmundur á Keldum [sjá tölul. 6]).

---

15. Vir | pius et admodum | reverendus | D N | Gottskalchus | Theodori E. | pastor Keldensis | ΕΜΟΙ | ΓΑΡ | ΤΟ | ΞΗΝ ΧΡΙΣΤΩ | ΚΑΙ | ΤΟ | ΑΠΟΘΑΝΕΙΝ | ΧΕΡΔΟΣ | Fæddur 1666 | vígðiz 24 ára 1690 | Deiðe 70 ara 1736 | a embættisare 46. Eckustands 4.

(Latínan efst á steininum er með latínuletri. Gríska með griskuletri og myndar sporbaug á miðjum steininum; eu innan í baugnum er réttur og öfugur nafndráttur: G. Þ., með snarhandarletri. Íslenzkan, neðst á steininum, er með settletri. Gottskálk prestur bjó nokkur ár á Keldum. Hann gifti þau Bjarna og Guðríði á Víkingslæk 1709, [sjá tölul. 8]).

## **Legsteinar í Teigskirkjugarði.**

---

I. Með rúnaletri:

Hjer hvílir Vigfús Magnússon í G(uði).

---

II. Með latínuletri, upphleyptu:
Þaðan
sundrast og saman koma
andvana moldir
þeirra
göfugu, guðhræddu og nafnfrægu
hjóna
Brynjólfs Thorðarsonar | Thorlacii | og
Jórunnar Skúladóttur.
Hann var
forðum sýslumaður í Arnes | þingi.
Tvisvar kvongaðist hann og
tvisvar varð hann ekkjumaður.
Hann lifði í hinu fyrra hjónabandi IV | aar.
og því síðara L en embættis IV aar.
Alls lifði hann LXXXI aar.
Fæddist A.o MDCLXXI, Deiði A.o 1762.
Hún lifði ásamt honum í heilögum egta | skap
L aar, hvern guð blessaði þeim
Með III sonum og I dóttur
Alls lifði hún LXIIX aar
Fæddist A.o MDCXCIII. Deiði A.o 1761.
Esaj. cap. XXV. Hann mun dauðann uppsvelgja eilíflega, og DROTTINN, DROTTINN mun þerra tárin af allra andliti og burttaka forsmán síns fólks af allri | jörðunne. því að
Drottinn hefir það sagt.

---

## Legsteinar í Úlfljótsvatnskirkjugarði.

1. Hier hvila | heiðurshion | Gísli Gíslason | deiði 16 águst 18 | 58, 84 ára gamall | og Þjóðbjörg Guðna | dóttir deiði 20 maí 1866 að al | dri 96 ára. Sæl eruð þier sem | í Drotni dóuð.

(Þessi hjón biuggu að Villingavatni).

2. Hier hvila | heiðurs hion | frá | Ölfusvatni | Þórður Magnússon | fæ. 6. apr. 1786. † 10 apríl 1858 | Guðrún Þorgeirsdóttir | fæ. 4 maí 1794 † 7. nóv. 1864. Giptust 1812. M. M.

## Legsteinn í Hvammskirkjugarði.
(í Hvammssveit).

[Er með breyttu latínuletri, og stendur það svo sem hér er sett].

Saxo sub hoc
jacent

| | |
|---|---|
| DN: Theo<br>dorus<br>Tordi F.<br>Ecclesiæ<br>Hvammensis<br>Parochvs<br>et vicna(?)[1]<br>rum Præ<br>positus<br>Vir pieta<br>te et doc<br>trina<br>insig<br>nis. | Thor<br>biorga<br>Erich<br>(?)thei[2]<br>Filia<br>D. Theo<br>dori ux<br>or p(?)ie[2]<br>tate cæ<br>terisqve<br>virtvti<br>bus incly<br>ta mu<br>lier |

Emilitante in
Triumphantem
avocati Ecclesiam
A: MDCCXXXIX
Phil. 1.
Mihi Christus
vita est mors
mihi lucrum.

---

I Staðarhraunskirkjugarði er brotinn legsteinn yfir konu, og er nafn hennar molað burtu, en sést, að hún hefir verið Þorbjörnsdóttir, fædd 1777, gift 1809, dáin 1829.

»Börnum 3 bezta móðir«.

»Deyr fje deyja frændur« o. s. frv.

---

1) Óglögt. 2) Úrhlaupinn stafur eða galli í steininum.

## Legsteinn í Fróðárkirkjugarði

(íslenzkur steinn með latínuletri).

Hjer hvíler andvana | heiðurs bóndinn | Ólafr Bjarna borinn 7 febr. 1794 | giftist 1818 jungfrú | Ingveldi Grímólfsd | Fæddust þeim 4 börn | en 2 af þeim ásamt móður sinni | og 2 uppeldisbörn | um harma hann dáinn 6. marz 1863. | Hann var | guðhr. góðsamr | gjafmildr heilráðr | veglyndur vandaður | virtur og elskaður.

---

## Legsteinar í Laugarbrekkukirkjugarði.

---

1. Her under hviler salig | Mathias Guðmandson | forvalter ofver Arnesta | pens kloster udi Snefelds | sydtsel hans kiære hustru | som fra dette elendige lif | salig af Christo var heden kal | dt paa Arnestapen den 12 | februarii anno MDCLX Gud lade | hende med alle utvalde be | komme en ærefuld opstandelse | Psalm 116 af det 7. 8. 9. vers | Min siel ver nu til freds | igien thi herren giör vel i | mod dig thi du ryckte min siel fraa döden mit öge fra graad | min foed fraa fald ieg vil | vandre for herren udi de levende lande.

---

2. Her under | hviler den nu sl unge | Karl Peder Mogensen | föd udi Kiöbenhavn | og döde her paa Arne stappen den 27 | februarii MDCCXIX da hand havde betient | welædle og welbirdige nu sl. Matias Pedersen kongl. May$^{\underline{tz}}$ welbestaldei | stadtz hauptmand og raadmand her i Kiöben | havn og edle $^{\underline{sr}}$ Christian Poulsen Fyen | begge octroyerede til Negotien udi | Arne stappens district for kiöbmand | 17 aar her paa Stappende og til en admin | delse denne steen haver ladet over | hannem legge og bekostet.

Gud give hannem glædelig Opstan | delse paa dommedag ao 1723.

[Steinarnir eru úr marmara og með breyttu latínuletri. Hinn síðartaldi er brotinn og sum orðin því sködduð nokkuð.

---

## Legsteinn í Ingjaldshólskirkjugólfi

(með latínuletri).

Wakned upp | af svefne andvaraleisesins | ó þjer men sem fram hja vn | ganged gráted landsens hriggilegt tilfelle ad | hjer er til hvíldar lagdur sá sem alt landed | ma gráta wiis og hágöfugur herra | Hr. Magnús Jonsen lögman ifir nordur | og westur Íslande fæddur MDCXLII | og frá sislumansembætte til lögmans | kjören anno MDCLXXIX hvörju hand tjenade med ærv og virding i XV ar | alt þangad til hand safnadist | til syna foreldra og deide anno MDCXCIV þan XXV aprilis og deide a LII are sins aldurs | Discite mortales

jacet | hic cum pondera virtvs | simoritur virtvs numina pose more | Discite nam rectum et magna | observantia lecvn | hie jacet hic norma est descite tholi colæ.

[Steinninn er nokkuð máður, og eigi heldur fullbjart á honum, er eg las á hann; má því vera, að latínorðin séu eigi öll rétt lesin].

*Brynjúlfur Jónsson.*



Um

# myndir af gripum í Forngripasafninu.

Eftir

**Jón Jakobsson.**

---

Olíumynd

(nr. 708).

Þessi mynd er gefin safninu í júnímánuði 1869 af frú Gyttu Elínu Thorlacius á Eskifirði, ekkju Bjarna sál. Einarssonar læknis Thorlacius á Eskifirði (†1867); það er stór olíumynd af Jóni Thorlacius á Berunesi á Berufjarðarströnd, sýslumanni í Múlaþingi (†1712), syni Þorláks biskups Skúlasonar, og bróður þeirra biskupanna Gísla og Þórðar Þorlákssona, konu hans, Seceliu (Sesselju) dóttur Hallgríms prófasts Jónssonar í Glaumbæ í Skagafirði (†1680) og sonum þeirra tveimur, Þorláki og Vigfúsi, er dóu ungir við háskólanám í Kaupmannahöfn. Myndin er sjálf (án umgerðar) 71 sentimeter á breidd og 115 sm. á lengd, umgerðin er 12 sm. á breidd; myndaspjaldið er samskeytt úr fimm pörtum, eins og ljósmyndin ber vott um; hafði einn af fyrverandi eigendum myndarinnar látið taka hana úr umgerð sinni, saga sundur í fimm parta og búa til úr kistil(!!), eru göt hér og hvar á myndinni eftir naglana, sem reknir hafa verið í gegnum hana. Efst á myndaspjaldinu hægramegin er Jón sýslumaður; hann hefir verið fríður maður sýnum, eins og Espólin segir. Hann er með þykt, jarpt hár, er liðast á herðar niður, með skegg á efri vör og klofið hökuskegg, svartan klút um hálsinn, lykkjuhnýttan, og yfir honum hvítan trefil úr líni, er hangir niður á brjóstið; hann er í dökkgráu fati yztu klæða, mittisvíðu með þrísettum hnapparöðum að framan með snúrum þvert yfir mittishnappana, með stuttum ermum; sér fram undan erminni á hægri handlegg í hvíta, rykta línermi með líningu að framan, hægri hendina leggur hann á brjóstið; við vinstri hlið hans sér á sverð; er meðalkafli þess silfurbúinn, handbjörgin úr silfri og silfurhnappur efst á því; vinstra megin við höfuð hans efst á spjaldinu standa stafirnirnir I H S,

(Jesus hominum salvator), sem eigi sjást berum augum á ljósmyndinni. Vinstra megin á myndinni, andspænis sýslumanni, er kona hans, Secelia; hún hefir kollháan, barðastóran, svartan hatt á höfði (eins og konur Gísla biskups Þorlákssonar á myndinni nr. 3111 í safninu), með 3 hvítum borðum á neðri hluta kollsins og hvítum borða á barðbrúninni; undir hattinum hefir hún borið fald og um hann vafið að neðan rós-saumuðu höfuðbandi, er hylur mestan hluta ennisins, á vinstri hlið hattkollsins er stór, gyltur, kringlóttur skjöldur með verki og svörtum depli (steini) í miðjunni. Hún er í svartri, aðskorinni hempu með löngum ermum og 8 kræktum silfurpörum að framan, efst á henni er kragi með líkri gerð og höfuðbandið; framan á börmum hempunnar eru hvítar snúrur og á báðum boðungunum ofanverðum gyltur hempuskjöldur með líkri gerð og hattskjöldurinn. Vinstra megin við höfuð frúarinnar sjást á frummyndinui stafirnir Æt. 46 (þó sést eigi allur síðari tölustafurinn), mun það eiga að vera ætatis anno 46 (á 46. aldursári); hægra megin við höfuð Jóns sýslumanns stendur: Æt. . . . 4; er fyrri stafurinn máður af, en mun eiga að vera 5 (ɔ: ætatis anno 54); milli hjónanna, rétt fyrir neðan tvo efstu parta myndarinnar, er einnig mjög óljós lína, sem nær upp í samskeytin, les eg hana þannig: Ao 1.33, næstfyrsti tölustafurinn er algerlega ólesandi, en mun eiga að vera 6, því að neðar á myndinni, hægra megin við Jón Þorláksson, stendur: Ao, milli hjónanna standa tölustafirnir: 16, og vinstra megin við konu hans: 88, og kemur þá alt heim. Myndin mun vera gerð af þeim hjónum árið 1688 og upphaflega hafa verið sérstök mynd, eins og hinn hvítmálaði blaðabaugur fyrir neðan myndina bendir á, ártalið 1633 mun vera fæðingarár Jóns sýslumanns[1] og hann þá á 54. ári, þegar myndin er tekin, en kona hans á 46. ári, eftir því sem ráða má af tölunum vinstra megin við hana, enda er hún unglegri en hann á myndinni[2]. Innan í blaðabaugnum, sem af er skorin önnur hliðin, eru máluð með stóru latínuletri þessi orð: Effigies viri consultissimi dn̄ Jónae Thorlaci reg. mayt. per provinciam. mulensem praefecti simul ac vxoris eius Seceliae (Mynd af hinum (lög)lærðasta manni herra Jóni Þorlákssyni konunglegrar hátignar sýslumanni í Múlasýslu, ásamt mynd af konu hans). — Neðri helmingur myndarinnar, eins og hún er nú, sýnir tvo sonu þeirra hjóna, Vigfús og Þorlák, þeir eru báðir hárprúðir sem faðir þeirra, með hár á herðar niður, og mjög líkt búnir, þeir eru í einhneptu fati yzt klæða með víðum stuttermum og þröngum dökkum ermum framundan með líningu að framan; um mittið fellur fatið að limum, en gapir að ofan. Þorlákur er hægra megin á myndiuni, til hægri hliðar við höfuð hans er stafurinn: T(orlákur) og þar niður undan: nat:

1) Þorlákur biskup Skúlason, faðir hans, giftist 1630.

2) Allar þessar tölur eru ósýnilegar á ljósmyndinni.

(us ɔ: fæddur) 1675, en vinstra megin: J(onaeus ɔ: Jónsson) og þar fyrir neðan: Obiit 1697 (dó 1697); hægra megin við Vigfús stendur svo í sömu röð: W(igfús) nat(us) 1676 og hinu megin: J(onaeus) 1694. Fyrir neðan myndina er hvítmáluð brík, sem beygist niður á við til hliðanna og þar niður undan þessi orð með gyltum gotneskum stöfum: Loflegra bræðra lýking er, ljóst Thorlaks og Vigfúsa(r) hier, Jonsona hvörier haatt með nafn, hvijla nú vært í Kaupenhafn, í jörtagarði hvör öðrum hjä helgrar Trijnitatis[1] kirkju aa.

Hallg. J. S.

Mér er ókunnugt um höfundinn að þessum miður skáldlegu minningarorðum, en mér hefir dottið í hug, að það kynni að vera Hallgrímur Jónsson, sýslumaður í Múlaþingi (†1736), bróðir þeirra Þorláks og Vigfúsar, því að hann mun eitthvað hafa fengist við ljóðagerð (sbr. Espólíns Árbækur IX 6). — Mynd þessi, sem upphaflega hafa verið tvær myndir, hékk fyr meir, að sögn, í kirkjunni í Berunesi, þaðan hefir hún síðan verið tekin og komist í ræktar- og skeytingarlausar hendur. Nú er hún á Forngripasafni Íslands, sem hefir sent hana utan til viðgerðar og sýnt henni þann sóma, sem henni ber.

---

## Olíumynd
## (nr. 4637).

Mynd þessi er tekin eftir olíumálaðri mynd, sem kom til Forngripasafnsins sumarið 1899 frá Kirkjubæjarkirkju í Hróarstungu í Norðurmúlasýslu, ásamt altaristöflu úr alabasti og Maríulíkneski úr tré frá sömu kirkju. Myndin er af síra Ólafi prófasti Einarssyni á Kirkjubæ, syni sr. Einars Sigurðssonar í Heydölum í Suðurmúlasýslu, hálfbróður Odds biskups Einarssonar og föður skáldsins síra Stefáns Ólafssonar í Vallanesi; er hann málaður þar með konu sinni, Kristínu Stefánsdóttur, Gíslasonar biskups Jónssonar, og börnum sínum öllum, 15 að tölu.

Mynd þessi er það, sem nefnt er triptychon ɔ: þrískift tafla með tveim vængjum, sem hver er helmingur af breidd töflunnar, svo að vængirnir hylja algerlega aðaltöfluna, þegar þeim er lokað; eru margar af altaristöflum safnsins með því lagi. Taflan er úr eik, hæð hennar er 135 sm. upp á bust, en 103 sm. upp þangað, er sniðið byrjar; á breidd er hún 89 sm., vængirnir 44½ sm. hvor; er á annan þeirra negldur listi, er gengur rúml. ½ sm. út á hinn vænginn, þegar töflunni er lokað. Tveir eru okar á hvorum væng, vængirnir á hjörum og ganga lamirnar eins og þá var títt, langt út yfir miðja vængina; eigi eru þær gagnskornar, en mjög verklegar. Þegar töflunni er lokað fylgja vængirnir alstaðar brún hennar; engin er mynd á þeim að utanverðu, heldur eru þeir einlitir og málaðir rauðir. Umgerð töflunnar er 9 sm. — með vængjum

1) Þrenningarkirkjugarði í Kaupmannahöfn.

10 sm. — á þykt, innan í henni, næst sjálfri töflunni er gyltur listi úr tré, íhvolfur. Aftan á sjálfri töflunni (á bakinu) stendur á ljósleitum grunni með svörtum arabiskum tölum ártalið: 1648, og mun það vera það ár, sem myndin var tekin, enda er Ólafur prófastur mjög ellilegur á myndinni, með fannhvítt hár og skegg; þar fyrir neðan standa svo með latínuletri þessi orð úr fyrra bréfi Páls postula til Timotheus: Pietas ad omnia vtilis est, promissionem habens vitae presentis ac fvtvrae. 1. Tim. IV. (Guðræknin er til allra hluta nytsöm, hafandi þessa lífs fyrirheit og svo hins eftirkomanda).

Á miðja töfluna er málað krosstré, sem nær alt upp í kverk bustarinnar og langt niður á töflu; efst á því er pergamentsrolla (yfirskriftin) með orðunum: Jesús frá Nazaret konungur Gyðinga, á þrem tungum, hebresku grísku og latínu, þar fyrir neðan hangir Kristur á krossinum með þyrnikórónu á höfði, blóðugar hendur og fætur og sárið á síðunni. Hægra megin við krossinn ofanverðan er svo að sjá, sem eigi að vera skýjað og þrungið loft, en hinum megin er kringlóttur blettur með ljósi umhverfis, og mun það eiga að tákna sólmyrkva þann, er um getur í píníngarsögu Jesú Krists; þar fyrir neðan liggur svo mjög dauf leturlína með latínskum bókstöfum beggja megin við krossinn yfir þvera töfluna, er mér virðist vera þessi orð: Spes alit (hægra megin og) agricolas (vinstra megin við krossinn)[1], sést að eins votta fyrir síðasta orðinu á ljósmyndinni; neðar á töflunni grillir í turna, hús og stórbyggingar og mun það eflaust eiga að vera borgin helga (sbr. myndin af Magnúsi prúða nr. 2060 í safninu, er einnig sýnir borgina helgu bakvið krossinn), þar niður undan er grunnur myndarinnar grænn, og mun það ef til vill eiga að merkja grænar grundir og jurtagróður (sbr. myndina af Ara Magnússyni nr. 3108 í safninu), en alt er þetta, er eg nú hefi lýst, mjög dauft á frummyndinni og sumpart ósýnilegt á ljósmyndinni, enda er það í fjarlægð (»Baggrund«) á sjálfri myndinni. Neðst á krosstrénu er náhöfuð (hauskúpa). — Til beggja hliða út frá krossinum eru myndir af séra Ólafi, konu hans og börnum, eru synir hans þrír þeir elztu, efst hægra megin við krossinn, en hinum megin andspænis fjórar af dætrum hans; þá koma þau hjónin, séra Ólafur og Kristín, krjúpa þau sitt hvoru megin við krossinn og fórna höndum, og svo gera einnig þau 5 börn, sem fyrir neðan þau eru á myndinni. Til vinstri handar við konu séra Ólafs, nokkuru neðar, eru enn tvær af dætrum hennar, en neðst eru sem í hvirfingu um höfuðskelina tveir drengir til hægri handar og eitt stúlkubarn til vinstri og fyrir neðan sjálfa höfuðskelina þrjú ungbörn í reifum; er bersýnilegt, að hin síðast töldu hafa dáið í reifum. Hér eru þannig talin 15 börn séra Ólafs Einarssonar, en síra Einar Sigurðsson í

1) Vonin elur (akur)jarðbyggja.

Heydölum, afi þeirra, getur að eins um 10 í Barnatöluflokki sínum (Ldsb. nr. 690 8$^{\underline{vo}}$), er hann orti 1626, sem sjá má af vísum þessum:

Þrír synir Ólafs eru,
*Eiríkur* fyrstur þeirra;
*Stefán* og með *Jóni*
allir gæfumenn kallast,
*Margrét* mest af dætrum
með *Þorgerði* verður
að beztu kvenmanns kostum,
*Kristín* og *Guðný* systur.

*Guðrún* mín hin góða
gæfu fær alla æfi,
*Helgu* hamingjan fylgi,
haldi blessun margfaldri,
angurlaus *Margrét* yngri,
ein þó nafnið sé seinast,
flokkur Ólafs þar þekkist
í þeim hinum nýja heimi.

Hér eru taldar allar dæturnar, sem myndin sýnir að komist hafa á legg, eru því allar líkur til, að Þórdís sú, sem Espólín og Ólafur Snóksdalín nefna, hafi aldrei til verið; eru þá að eins ótaldir hjá síra Einari báðir yngstu drengirnir, sem á myndinni standa, og ungbörnin 3, sem myndin sýnir að dáið hafa á 1. ári; má vel vera. að þau hafi þá eigi fædd verið, er síra Einar orti Barnatöluflokk sinn, þar sem mynd þessi er að öllum líkindum tekin 22 árum síðar, eða þá verið dáin, því hann getur eigi annarra niðja sinna en þeirra, er á lífi eru 1626. Sennilegt er, að bræðurnir standi á myndinni eftir aldri, og í þeirri röð, er síra Einar telur þá, og er þá Eiríkur (síðar prestur á Kirkjubæ eftir föður sinn, †1690) næstur krossinum, þá Stefán Ólafsson (skáld og prófastur í Vallanesi, †1688, nýkominn sama árið, sem myndin er tekin, frá Kaupmannahöfn að afloknu háskólanámi[1]), og yztur Jón, sem fátt er um kunnugt, enda kemur það vel heim, því að sá sem í miðju stendur er gjörfilegastur og fyrirmannlegastur þeirra allra, virðist honum svipa mjög til móður sinnar í andliti. Síra Ólafur, Eiríkur og Jón eru allir með pípukraga um hálsinn, og í síðum, víðum ermakápum. en Stefán og yngri bræðurnir,

**1) Sbr. hina fróðlegu ritgerð dr. Jóns Þorkelssonar (yngra) um Stefán Ólafsson framan við 2. bindi af Kvæðum Stefáns Ólafssonar Kmh., 1886 bls. I—LIV.**

þeir er neðar standa á myndinni, hafa slétta línkraga um hálsinn; að öðru leyti virðist Stefán eins klæddur og faðir hans, en drengirnir eru í treyju og víðum stuttbuxum. Svo er að sjá, sem málarinn hafi þekt vel (eða haft fyrir sér) síra Ólaf, konu hans og að minsta kosti 2 af sonum hans, því andlit þeirra eru einkarvel gerð með lífi og einkennileik í yfirbragði; aftur á móti virðast andlit dætranna margra stælt eftir andliti móður þeirra, eins og dæmi eru til með fleiri myndir frá 16. og 17. öld, þar sem höfðingjar eru málaðir með skylduliði sínu (sbr. myndina af Magnúsi prúða og skylduliði hans nr. 2060 í safninu, þar eru allir synir hans 5 stældir eftir honum og dæturnar 6 eftir móður þeirra, en hæðarmunurinn einn sýnir, að þau eru á ýmsu aldursreki). Kona sira Ólafs og 6 dætur hennar eru allar líkt klæddar, í ermakápum og rauðum kyrtli innan undir, er sér á að framan, þar sem kápan slær sér út (sést eigi á ljósmyndinni), þær eru allar með pípukraga um hálsinn, með hatt á höfði og faldað undir; sér á tröfin niður undan hattinum. Sú yngsta er og líkt búin, en er með rauða hettu á höfði.

Undir myndinni standa þessi orð á latínu, rituð með gyltum, stórum, rómverskum bókstöfum:

Effigies admodvm reverendi et doctissimi (1. lína)
viri D. Olai Eineri pastoris Kirkebæensis et (2. lína)
ecclesiarum Mulanarz præpositi vigilatissi(mi) (3. lina)
vnacum vxoris ejvs, et XV. liberorvm (4. lína)

(Mynd af hinum háæruverða og hálærða manni herra Olafi Einarssyni presti að Kirkjubæ, og mjög árvökrum prófasti í Múlaþingi, ásamt (myndum af) konu hans og 15 börnum).

Hægri vængur myndarinnar sýnir Jesúm nakinn, með mittisskýlu, þyrnikórónu á höfði og standa geislar af; hann stendur við steinstöpul(?) eða súlu, ofan á stöplinum er að sjá sem borð úr hvítum marmara(?) og í því miðju hringur; frelsarinn er með samanreyrðar hendur og taugin föst í hringnum. Á hinum vængnum er uppíisan; sér þar í opna gröfina og lokið, er rís upp við enda hennar, frelsarinn er stiginn upp úr gröfinni, hann teygir hægra fótinn niður, en hinn er boginn og ber hærra, hann er með mittisskýlu og fellur dúkur (líkklæði) af vinstri öxlinni niður með bakinu og fram með hægri hlið hans; vinstri höndina hefur hann til himna með upprétta 2 fingur, en hægri höndina réttir hann niður með dúknum, augu hans mæna til himins og er geisladýrð um höfuð hans.

---

Þetta er 7. olíumyndin, og ein hin merkilegasta, sem safnið hefir eignast af höfðingjum 16. og 17. aldar með konum þeirra eða öllu skylduliði; hinar eru: 1) af Magnúsi prúða með konu og börnum, 2) af Ara Magnússyni og Kristínu Guðbrandsdóttur, 3) af Gísla biskupi Þorlákssyni og konum hans þremur, 4) önnur mynd af Gísla biskupi með einni af

konum hans. Allar eru myndir þessar til safnsins komnar frá kirkjum (Haga, Ögri, Hólum og Kirkjubæ) og fyrirkomulagið hið sama á þeim öllum: kross í miðju og karlar og konur út frá honum sitt til hvorrar hliðar. Hinar eru: 5) mynd af Jóni sýslumanni Thorlacius með konu og tveim sonum (sem Árbókin nú flytur) og 6) mynd af L. Gottrup, lögmanni á Þingeyrum, með konu og börnum.

---

## Sverð, spjót, öxi og spjót.

(nr. 559, 557, 565, og 575)

Fjórir af hlutum þeim, sem á neðstu myndinni eru, sverðið í miðjunni (nr. 559 í safninu), spjótið þar fyrir ofan (nr. 557), öxin þar framundan (nr. 565) og spjótið neðst á myndinni (nr. 575), eru allir fundnir veturinn 1868 fyrir norðan garð á Hafurbjarnarstöðum í Gullbringusýslu og eru nokkur hluti af hinum merkilega fundi, sem þar fanst í 7 dysjum; þrír hinir fyrst nefndu eru allir úr sömu dys, en nr. 575 úr annari dys. Það sem heilt er af sverðinu er um 49 sentimeter á lengd, þar af hjöltun og meðalkaflinn 17 sm., brandurinn liðlega 6 sm. á breidd uppi við hjöltun, meðalkaflinn er tæplega 10 sm. á lengd og 2 sm. á breidd um miðjuna, en breikkar til endanna, þó meira niður; utan á honum eru nokkurs konar kinnar úr tré með 2 rákum eða skorum eftir endilöngu, er svo vafið þar utan um silfurvír snúnum og sléttum á víxl; neðri hjöltun eru 11 1/2 sm. á lengd og 2 sm. á breidd um miðbikið, en breikka lítið eitt til endanna; efri hjöltun eru nokkuru minni en hin, að eins 9 sm. og að því skapi mjórri, en með sömu lögun; ofan á þeim er stór hnappur þrískiftur, þannig, að stærsti hnappurinn er í mið- og 2 smærri sinn til hvorrar hliðar við hann. Bæði hjöltun hafa verið lögð sléttu silfri að utan, sem sjá má að nokkuru leyti af ljósmyndinni og er víða þar inn á milli smelt snúnum silfurvír, sitt hvoru megin við stóra hnappinn í samskeytunum eru og 2 silfursnúningar. Brandurinn er tvíeggjaður sléttur, þykkastur um miðjuna og þynnist jafnt út til beggja eggjanna; framan af honum vantar mikið; þó er sjálfur blóðrefillinn heill og liggur hann innan í döggskónum; má af því sjá, að sverðið hefir legið í sliðrum; utan um blóðrefilinn, sem með döggskónum er rúmlega 12 sentímeter á lengd, en innan í döggskónum eru leifar af sverðsliðrunum, þær eru úr tré innst, en þar utan yfir virðist hafa verið strigi eða leður eða þá hvorttveggja, verður það eigi séð til hlítar, með því að efnið er orðið mjög ryðbrunnið. Döggskórinn er úr bronse, hann hefir verið gyltur og sjást enn nokkurar leifar gyllingarinnar á jöðrunum og víðar, hann er með gagnskornu verki, er myndar ormahnút og er svo að sjá, sem þar sé einn dreki stór, og flétti tveir aðrir minni ormar sig utan um hann. — Sverð þetta hefir verið mikil gersemi, og er víst eigi yngra en frá 10

öld, enda bera dysjarnar með sér, með öllu því, sem í þeim er, að þær eru frá heiðni; að það séu dysjar Kristjáns skrifara og fylgdarmanna hans, sem Norðlendingar drápu veturinn 1551 til hefnda eftir Jón biskup Arason og sonu hans, er þjóðsaga ein, sem við ekkert hefir að styðjast.

Nr. 557. Stór fjaðraspjótsoddur, úr sömu dys, fjöðrin er 33 sm. á lengd og 4 sm. á breidd, þar sem hún er breiðust, skarpur hryggur gengur eftir endilangri fjöðrinni beggja megin, það sem eftir er af falnum er tæplega 8 sm. á lengd og efst á honum sést í bláendann á skaftholinu.

Nr. 565. Axarblað úr járni, mjög járnmikið, það er 19$^1/_2$ sm. á lengd að auganu meðtöldu, 9 sm. fyrir egg, þykt axarinnar fyrir neðan augað eru tæpir 3$^1/_2$ sm., tveir oddar ganga fram og aftur úr auganu, eins og á fleiri fornaldaröxum (sbr. 1769 í safninu o. fl.); rifið er út úr auganu þeim megin. er frá snýr á myndinni. Öxi þessi er alveg með sama lagi og önnur, sem nýlega hefir fundist með öðrum fornmenjum á Kroppi í Eyjafirði, en talsvert járnmeiri.

Nr. 575. Fjaðraspjót með brotnum oddi. Fjöðrin er tæp 13 sm. fram að brotinu og 3 sm. á breidd fyrir neðan falinn, falurinn 12$^1/_2$ sm. á lengd, mikið er ryðgað aftan af honum, leifar af fremsta hlutu skaftsins liggja innan í honum, spjótið er með hrygg í miðju, þó eigi eins hvössum og nr. 557.

Sigurður heitinn Guðmundsson málari hefir komið með þá tilgátu, að Hafurbjörn Molda-Gnúpsson muni hafa verið grafinn í dys þeirri, sem silfursverðið fanst í; um það er náttúrlega ekkert hægt að segja með vissu, en hitt mun óhætt að fullyrða, að þar sé einhver heiðinn *höfðingi* grafinn, á það bendir hið dýra sverð og alvepni, sem lagt er í gröfina, ásamt hrossi, hundi og öðru fleiru, er til ríkulegrar greftrunar heyrði í heiðnum sið.

Aths. Sverðinu, sem neðst er á myndinni fram undan spjótinu, finn eg ekki ástæðu til að lýsa. með því að myndin af því hefir mishepnast svo mjög, að lítið er á henni að græða. Þess skal getið, að hinar hvítu rákir, sem liggja þvert yfir hlutina á myndinni, eru bönd þau, sem varð að nota til að halda hlutunum föstum meðan myndin var tekin.



# Yfirlit

yfir muni, er Forngripasafni Íslands hafa bæzt árið 1900.
(Tölurnar fremst sýna tölumerki hvers hlutar í safninu)

4674 (Frá Landsskjalasafninu): Þingboðsaxir.
4675 (Verzlunarmaður Thor Jensen í Hafnarfirði): Lagvopn, fundið í jörð á Akranesi.
4676 Olíumynd af L. Gottrúp, konu hans og börnum. Frá Þingeyrum.
4677 Gamalt beizlishöfuðleður. Vestan af landi.
4678 Pergamentsblað með mynd af Kristi á krossinum.
4679 Silfurbelti. Vestan af landi.
4680—91 (Skipstjóri Thor Randulff frá Mandal): 12 peningar, rússneskir, belgiskir og þýzkir úr silfri, kopar og nikkel.
4692 Fingurgull, fundið í Garðakirkjugarði á Álftanesi.
4693 Gapastokkur (smíðaður eftir eldri fyrirmynd).
4694 Mellulás úr járni.
4695—96 Tvær trésleifar norðan úr Strandasýslu.
4697—98 Tveir skutlar, norðan af Ströndum.
4699 Skutulstöng, úr sama stað.
4700 Tveir altarisstjakar úr látúni. Frá Hellnakirkju.
4701 Tveir altarisstjakar út tini. Frá sömu kirkju.
4702 Innsigli úr kopar. Vestan af landi.
4703 Brauðmót úr tré, skorið. Norðan úr landi.
4704 Blöndukanna með skornu loki. Norðan úr landi.
4705 Smjöröskjur með skornu loki. Norðan úr landi.
4706 Tóbaksponta, að sögn úr eign Magnúsar sýslumanns Ketilssonar.
4707 (Fyrv. alþm. Halldór Daníelsson í Langholti): Diskur úr tini.
4708 (sami): Úrhilla úr bronzi, fundin í rústum í Langholti,
4709 Öskubakki(?) úr bronzi, fundinn á sömu stöðvum.
4710 Lítill kassi úr tré, skorinn.
4711 Krossbrot úr bronzi. Fundið í kálgarði hjá Hvaleyri í Hafnarfirði.
4712 Skúfhólkur úr silfri.
4713 Skráarlaufs-umgerð úr tré, skorin. Austan úr Laugardal.

4714 Brauðstíll úr kopar með letri.
4715 Tveir eyrnahringir úr gulli. Frá Rauðamýri í Nauteyrarhrepp í Ísafjarðarsýslu
4716 Ritstokkur úr tini; úr eign Magnúsar sýslumanns Stephensens í Vatnsdal.
4717—18 (Helgi bankaþjónn Jónsson): Tveir gamlir lyklar.
4719 Fimm franskir silfurpeningar frá árinu 1792.
4720—22 Þrír smápeningar úr silfri.
4723—28 Sex danskir silfurpeningar frá 1721, 1797, 1848, 1854 og 1855.
4729—30 Tvö koffur úr silfri. Vestan af landi.
4731 Reizlusteinn úr Hrappseyjarbúi frá 1741.
4732 Gömul silfurskeið með verki.
4733 Rýtingur úr járni, fundinn í jörðu í Næfurholti í Rangárvallasýslu.
4734 Ábreiða, stór, rósótt. Austan af landi.
4735 Vefjarsverð úr hvalbeini. Austan af landi.
4736 Hræll úr hvalbeini. Austan af landi.
4737—38 Tvær tágakörfur. Austan úr Suðurmúlasýslu.
4739—40 Tvö nálhús úr hreindýrshorni. Úr sömu sýslu.
4741—42 Tveir stafhúnar úr hreindýrshorni. Úr sömu sýslu.
4743 Partur af linda. Úr sömu sýslu.
4744 Tóbaksdósir úr tré. Austan af landi.
4745 Prjónastokkur með skornu loki, frá 1847. Austan af landi.
4746 Tágahaft. Úr Suðurmúlasýslu.
4747 Tágaskór. Austan úr Suðurmúlasýslu.
4748 Gömul skrá úr járni. Austan af landi.
4749 Áklæði. Austan af landi.
4750 (Brynjúlfur fræðimaður Jónsson frá Minna-Núpi): Tveir tinnumolar, fundnir undir eldstæðinu í hörgnum í Hörgsdal
4751 Forn eirkross emailleraður, með Kristsmynd.
4752 Samfella úr klæði. Austan úr Rangárvallasýslu.
4753 Tveir eyrnahringir (kvenhringir), stórir.
4754 Tveir húfuprjónar úr silfri.
4755 Lyklahringur úr eiri, úr eigu Steinunnar Pálsdóttur konrektors á Hólum.
4756 Beltispör úr silfri. Úr Borgarfirði.
4757—58 Tveir gamlir ermahnappar, úr silfri. Austan úr Árnessýslu.
4759 Bikar úr silfri. Úr sömu sýslu.
4760 Beltispör úr silfri. Úr sömu sýslu.
4761 Partur af tinnubissuhlaupi, fundinn í jörðu í Hvítanesi í Kjós.
4762 Askur með skornu loki. Norðan úr laudi.
4763 Smáöskjur úr tré með skornu loki.

4764 Kvenkragi, er átt hefir Rannveig Skúladóttir landfógeta.
4765 (cand. phil. Ólafur Davíðsson á Hofi í Hörgárdal): Beizlisstöng, fundin í jörðu í Hörgárdal.
4766 (Sami): Snældusnúður(?) úr beini, fundinn á sömu stöðvum.
4767 (Frú Anna Grönvöld í Christianssand í Noregi): Gömul húfa með borðaskúf.
4768 (Húskona Anna Jónsdóttir, Hálsi í Fnjóskadal): Húfa með silfurhólk.
4769 Blekbytta úr beini, haglega skorin, loklaus. Átt hefir Arni biskup Þórarinsson.
4770 (Kaupmaður Chr. Zimsen í Reykjavík): Bankaseðill frá Portúgal.
4771—73 (Sami): Þrír silfurpeningar, portúgalskur, saxneskur og ítalskur.
4774 (Verzlunarmaður Jes Zimsen í Reykjavík): Þrískildingur sænskur.
4775 XII skildingur danskur frá árinu 1718.
4776 II skildingur danskur frá árinu 1689.
4777 Koparpeningur danskur frá 1842.
4778—80 Þrjú asklok skorin.



# Skýrsla.

---

## I. Aðalfundur félagsins.

Aðalfundur félagsins var boðaður og haldinn 20. ágúst 1901 af varaformanni Pálma Pálssyni í forföllum formanns. Á fundi þessum hélt prófessor Finnur Jónsson fyrirlestur um verndan fornmenja, sem Árbókin flytur nú ágrip af. Áður höfðu formaður félagsins og umsjónarmaður Forngripasafnsins gefið út áskorun því viðvíkjandi, er birt var í ýmsum blöðum landsins. Þar eð fundur þessi var eigi lögmætur til kosninga, var boðað til aðalfundar á ný og hann haldinn 22. nóvember 1901. Formaður skýrði þar frá, að Arbók félagsins væri undir prentun og gerði grein fyrir framkvæmdum félagsins. Brynjúlfur Jónsson hafði í sumar eins og að undanförnu unnið í þjónustu félagsins og farið rannsóknarferðir um Suðurland; mundi skýrsla um það koma í Arbókinni 1902. Að því er snertir Hörgsdalsfundinn, gat hann þess, að von væri til, að fyrir góðfúslega milligöngu Péturs alþingismanns Jónssonar mundu samningar komast á um rannsóknir honum viðvíkjandi. Formaður gat þess, að kapt. Bruun hefði sent ritling um Parísarsýninguna, er sendur mundi verða félögum með Arbókinni þ. ár. Enn fremur gat formaður þess, að í fjárlögunum fyrir 1902 og 1903 væri hinn árlegi styrkur félagsins af landssjóði hækkaður upp í 400 kr.

Fram var lagður endurskoðaður reikningur félagsins fyrir 1900 og höfðu engar athugasemdir verið við hann gerðar.

Rektor B. M Olsen bar fram þá uppástungu, að úr lögum væri numið það ákvæði, að fundur væri eigi lögmætur, nema 12 félagsmenn auk forsetans væru á fundi, eða tala sú færð niður, og var samþykt áskorun til stjórnar félagsins um, að undirbúa lagabreyting í þessa átt. Því næst voru kosnir embættismenn og þrír fulltrúar (Pálmi Pálsson, Hannes Þorsteinsson og Jón Þorkelsson), og svo endurskoðunarmenn.

---

## II Stjórn félagsins.

Formaður: Eiríkur Briem, prestaskólakennari.

Varaformaður: Pálmi Pálsson, latínuskólakennari.

Fulltrúar:
- B. M. Ólsen, dr., latínuskólastjóri.
- Hannes Þorsteinsson, ritstjóri.
- Jón Þorkelsson, dr., landsskjalavörður.
- Pálmi Pálsson, latínuskólakennari.
- Steingrímur Thorsteinsson, yfirkennari.
- Þórhallur Bjarnarson, forstöðumaður prestaskólans.

Skrifari: Indriði Einarsson, endurskoðari.

Varaskrifari: Hallgrímur Melsteð, bókavörður.

Féhirðir: Þórhallur Bjarnarson, forstöðumaður prestaskólans.

Varaféhirðir: Sigurður Kristjánsson, bóksali.

Endurskoðunarmenn:
- Jón Jensson, yfirdómari.
- Valdimar Asmundsson, ritstjóri.

---

## III. Reikningur

hins íslenzka Fornleifafélags 1900.

Tekjur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Í sjóði frá fyrra ári . . . . . . . . . . . . | kr. | 1204,45 |
| 2. | Tillög og andvirði seldra árbóka (fylgisk. 1) . . . | — | 152,50 |
| 3. | Styrkur frá Forngripasafninu til að spyrja upp forngripi | — | 100,00 |
| 4. | Styrkur úr landssjóði . . . . . . . . , . . . | — | 300,00 |
| 5. | Vextir úr sparisjóði til $^{31}/_{12}$ 1900. . . . . . . . . | — | 28,38 |
| | | kr. | 1785,33 |

Gjöld:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Kostnaður við árbókina 1900, prentun, hefting og innhefting (fylgisk. 2, a—d) . . . . . . . . . . . | | | kr. | 224,65 |
| 2. | Greitt kapt. D. Bruun fyrir bók hans um Ísland á Parísar sýningunni, er útbýtt var sem fylgirit árbókar 1900 (fylgisk. 3) . . . . . . . . . . . . . . . | | | — | 200,00 |
| 3. | Greitt Brynjúlfi Jónssyni fyrir fornleifarannsóknir (fylgisk. 4, a—b) . . . . . . . . . . . . . . . . . | | | — | 180,00 |
| 4. | Ýmisleg útgjöld (fylgisk. 5, a—b) . . . . . . . . | | | — | 13,36 |
| 5. | Í sjóði 31. desember 1900: | | | | |
| | a. í sparisjóði landsbankans . . . . . | kr. | 866,01 | | |
| | b. hjá féhirði . . . . . . . . . . . . | — | 301,31 | — | 1167,32 |
| | | | | kr. | 1785,33 |

Reykjavík 15. ágúst 1901.

*Þórh. Bjarnarson.*

## IV. Félagar.

### A. Æfilangt.

Ásgeir Blöndal, læknir, Eyrarbakka.
Anderson, R. B., prófessor, Ameríku.
Andrés Féldsted, bóndi, Hvítárvöllum.
Ari Jónsson, bóndi á Þverá, Eyjaf.
Árni B. Thorsteinsson, r., landfóg., Rvk.
Arnljótur Ólafsson, prestur, Sauðanesi.
Bjarni Jensson, læknir á Síðu.
Björn Guðmundsson, kaupmaður, Rvk.
Björn M. Ólsen, dr., skólastjóri, Rvk.
Bogi Melsted, cand. mag., Khöfn.
*Bruun, D., kapt. í hernum, Khöfn.
Carpenter, W. H. próf., Columbia-háskóla Ameríku.
Collingwood, W. G., málari, Coniston, Lancashire, England.
Dahlerup, Verner, bókav., Khöfn.
Eggert Laxdal, verzlunarstj., Akureyri.
Eiríkur Magnússon, M. A. r., bókav., Cambridge.
*Elmer, Reynolds, dr., Washington.
Feddersen, A. Stampe, frú, Rindumgaard pr. Ringköbing.
Fiske, Villard, próf., Florence, Ítalíu.
Friðbjörn Steinsson, bóksali, Akureyri.
Gebhardt, August dr. fil, Nürnberg.
Gondie: Gilbert, F. S. A. Scot, Edinb.
Hjörleifur Einarsson, r., próf., Undirfelli.
Horsford, Cornelia, miss, Cambridge, Massachusetts, U. S. A.
Indriði Einarsson, endurskoðari, Rvk.
Jóhannes Böðvarsson, snikk., Akranesi.
Jón Gunnarsson verzlunarstj., Hafnarfj.
Jón Jónsson, próf., Stafafelli, Lóni.
Jón Vídalín, kaupmaður, Khöfn.
Jón Þorkelsson dr. fil. r. rektor Rvk.
Kjartan Einarsson, prófastur, Holti.
Kristján Zimsen, kaupmaður, Rvk.
Lárus Benidiktsson, prestur, Selárdal.
Löve, F. A., kaupmaður, Khöfn.
Magnús Andrésson, próf., Gilsbakka.
Magnús Stephensen, komm, af dbr. og dbm., landshöfðingi, Rvk.
Matthías Jochumsson, r., pr. Akureyri.
Maurer, Konráð, dr. jur., próf., Geheimeráð, München.
Muller, Sophus; dr., museumsdirektör, Khöfn.
Ólafur Johnsen, yfirkenn., r., Óðinsey.
Peacock, Bligh, esq, Sunderland.
Phené, dr., Lundúnum.
Schjödtz cand. pharm., Óðinsey.
Sighvatur Árnason, alþm., Rvk.
Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur.
Stefán Guðmundsson, verzlunarstjóri Djúpavogi.
*Stork, A. laboratoriums-forstjóri, Khöfn.
Styffe, B. G. (r. n.) dr. fil., Stokkhólmi.
Torfhildur Þ. Holm, frú, Rvk.
Torfi Bjarnason, skólastjóri í Ólafsdal.
Wendel, F. R., verzlunarstj., Þingeyri.

1) Stjarnan (*) merkir heiðursfélaga.

Wimmer, L. F. A., dr. fil., prófessor, Khöfn.
Þorgrímur Johnsen, f. héraðsl., Rvk.
Þorvaldur Jakobsson, prestur, Sauðlauksdal.
Þorvaldur Jónsson, f. héraðsl., Ísafirði.
Þorvaldur Jónsson, prófastur, Ísafirði.
Þorvaldur Thoroddsen, dr., r., Kaupmannahöfn.

## B. Með árstillagi.

Arni Jónsson, prófastur, Skútust. 00[1].
Amira, Karl v., dr., próf., München 00.
Arpi Rolf, dr. fil., Uppsölum 97.
B. B. Postur, Viktoria, Brit. Col., 00.
Björn Jónsson, ritstjóri. Rvk 00.
Brynjólfur Jónsson, fræðimaður Minnanúpi 01.
Davíð Scheving Thorsteinsson, héraðslæknir, Ísafirði 80.
Eiríkur Briem, prestaskólakennari, r., Rvk. 00.
Finnur Jónsson, dr., Khöfn 00.
Forngripasafnið í Rvk. 00.
Geir Zoëga. dbrm., kaupm., Rvk 00.
Gering, Hugo, prófessor, dr., Kiel 00.
Gräfe, Lucas, bóksali, Hamborg, 00.
Greipur Sigurðsson, bóndi, Haukadal 96.
Guðmundur Helgason, prófastur, Reykholti 01.
Guðni Guðmundsson, læknir, Borgundarhólmi 85.
Gustafsson, G. A., Filos. licentiat, konservator, Bergen 93.
Halldór Briem, kennari, Möðruvöilum 00.
Halldór Daníelsson, bæjarfóg. Rvk 00.
Halldór Kr. Friðriksson, r., yfirkennari, Rvk 00.
Hallgrímur Melsteð, bókavörður, Rvk 00
Hallgrímur Sveinsson, r., biskup, Rvk 00.
Hannes Þorsteinsson, ritstj. Rvk 00.
Harrassowitz, Otto, bóksali, Leipzig 95.
Hauberg, P., r., Museumsinspektör, Khöfn.
Helgi Jónsson, bankaassistent Rvík 00.
Jón Jónsson, læknir, Vopnafirði 99.
Jóhannes Sigfússon, kand. theol., Hafnarfirði 87.
Jón Borgfirðingur, fræðimaður, Akureyri 96.
Jón Jensson, yfirdómari, Rvk 00.
Jón Þorkelsson, dr., landsskjalavörður, Rvík 00.
Jónas Jónasson, prestur, Hrafnagili 93.
Jósafat Jónasson, Reykjavík, 99.
Kaalund, Kr., dr. phil., Khöfn 00.
Kristján Jónsson, yfirdómari, Rvk 00.
Lestrarfélag Fljótshlíðar, 00.
Lestrarfélag Austurlandeyinga, 96.
Magnús Helgason, pr., Torfastöðum 01.
Möllerup, V., dr. fil., r., Museumsdirektör, Khöfn.
Mogk E,, dr., prófessor, Leipzig 00.
Montelius, O., dr. fil., Am., Stokkh. 95.
Ólafur Guðmundsson, læknir, Stórólfshvoli 81.
Ólafur Ólafsson, prestur, Arnarbæli 81.
Páll Briem. amtmaður, r., Akureyri 97.
Páll Melsteð, sögukennari, Rvk 00.
Pálmi Pálsson, skólakennari Rvk 00.
Pétur Jónsson, blikkari, Rvk 00.
Pétur J. Thorsteinsson, kaupmaður, Bíldudal 00.
Rygh, Olaf, dr., prófessor, Kristjaníu 95.
Sigfús H. Bjarnarson, konsúll, Ísaf. 94.
Sigurður Gunnarsson, prófastur, Stykkishólmi 81.
Sigurður Kristjánsson, bóksali, Rvk 00.

1) Ártalið merkir, að félagsmaðurinn hefir borgað tillag sitt til félagsins fyrir það ár og öll undanfarin ár, síðan hann gekk í félagið.

Sigurður Ólafsson, sýslumaður, Kaldaðarnesi 00.
Sigurður Sigurðsson, kennari í Mýrarhúsum 01.
Sigurður Þórðarson, sýslumaður, Arnarholti 01.
Staatsbibliothek í München 00.
Stefán Egilsson, múrari, Rvk 84.
Steingrímur Thorsteinsson, yfirkennari, Rvk 00.
Steinordh, J. H. V., theol. + fil.dr. (r n.), Linköbing 93.
Sæmundur Jónsson, b., Minni-Vatnsleysu 89.
Tamm, F. A., dr. docent, Uppsölum 98.
Tryggvi Gunnarson, bankastj. Rvk C0.
Valdimar Ásmundsson, ritstj. Rvk 00.
Valdimar Briem, r., próf., Stóranúpi 99.
Valtýr Guðmundsson, dr. fil., docent, Khöfn 97.
Þóra Jónsdóttir, frú, Reykjavík 00.
Þórður J. Thoroddsen, héraðslæknir, Keflavík 80.
Þórhallur Bjarnarson, lektor, Rvk 00.
Þorleifur Jónsson, prestur, Skinnastöðum 96.
Þorsteinn Benediktsson, prestur, Bjarnanesi 98.
Þorsteinn Erlingsson, ritstjóri, Bíldudal.
Þorsteinn Jónsson, héraðslæknir, Vestmanneyjum 02.